# Ransókn
# Íslands gyldandi Laga
um
# Legords-Mál.

Ritud af
*Doctr. Juris* M. Stephensen,

Conferenceráди og Justitiario í Íslands konúnglega Landsyfirretti, og Fjelagsmanni ymislegra konúngl. og annara Lærdóms-Fjelaga.



Videyar Klaustri, 1821.
Prentud á kostnad Höfundsins,
af Faktóri og Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

## Til Lesarans.

Svo margbreyttar sannast nú daglega vera meiníngar manna um edli og sekt Legords-mála á vorum dögum; svo óljós þau Løg, eptir hverjum í þessum málum dæma egi, og því svo margbreyttir Dómar ad falla vída um þau, ad mér ecki hefir vyrdst eptirfylgjandi Ransókn þar ad látandi gyldandi Saka-laga vors Lands, verda kunna óþorf álitin í þessum tídum, þá allur Almúgi hefir, til lítilla Sidbóta í voru Landi, gjort sér þá raungu ímindun, sídan útkomu Plakatsins frá 12ta Júnii 1812: „ad fleirst legords-brot séu nú litt edur ecki saknæm ordin," og medfram styrkst í þeirri trú, af nockurra Yfirvalda afskiptaleysi um þeirra strøffun sum-

stadar í fullann 20 ára hefdar-tíma, ef annars afbrota sekt nockurntíma úreldst fengi.

Ad draga skyluna frá vidkomenda Villu í þessu opt fyrirkomanda og mikilvægá efni; ad vísa á þau Løg, sem eg meina hér á landi gylda ega um þessi almennu lagabrot, og leida þau úr miklum fjølda vafasamra; ad útskira rétt edli þessara afbrota og heimfæra til þeirra þad laga-straff, sem þessum best og réttast virdist hæfa; ad sanna þetta med Yfir- og ædstu Dómstóla, sjálfs Løgsgjafarans og Hans Stjórnar-Ráda samhljóda áliti þeirra til sekta, var því ósk og vidleitni mín á þessum blødum, til uppfrædíngar og leidarvísirs þeim mørgu, sem þar um vyrdast midur fródir enn skyldi; hverja veiku Tilraun eg samt bid Lesarann á hægri veg ad vyrda.

Videyar Klaustri, 12ta Apr. 1821.

M. STEPHENSEN, *Dr.*

§. 1.

Enginn upplýstur og sidsamur madur neitar því, ad allsháttar rádvendni í sidum manna og framferdi, sé heill hvers lands og alls borgaralegs samlífis, edur ad Lög ecki þurfi ad verda trúarbragdanna og sidalærdómsins áminníngu og uppfrædíngu um allt þad, er spilla má gódum sidum, borgaralegri reglu og eigin velferd manna, samtaka í ad vara vid því, og hvar lærdómsins áminníng ein ecki fær áunnid nóg til betrunar, fæla eins frá þeim og ødrum brotum med hegníngar hótun og áleggíngu, samqvæmt vel nidurskipudum saka-løgum, eptir afbrotanna edli.

§. 2.

Nockur þesshattar afbrot, sem ecki mega teljast med eginlegum illverkum edur ódædum, enn þótt stríddandi mót sidsemi og gódri reglu, leidir af misheldnum skyldum manna vid

sjálfa sig; nockur af sömu vid adra; nockur lýsa eintómri hrøsun og breiskleika náttúru-farsins, án minnsta tilgángs ad skada nock-urn mann; nockur yfirbugun skynseminnar af upprunalega saklausum náttúru-tilhneg-íngum, sem Náttúru-legmálid ecki vítar, en þo garaleg Løg, til betri reglu og sidsemdar, reyna med misheppnum eda videganda krapti, ad halda innan réttra takmarka. Medal þvi-lík á er allskonar óhóf og munadur, prakt, eyd slusemi og svall, ofdryckja og ót.mabær ást. Vandrædi þykja samt ad fyrirbyggja illar afleidíngar misbaitinna skyldna manna vid sjálfa sig i þesshattar efnum med straff-løgum, og Stjórninni midur hlýda ad gefa mørg þvi-lík, sist hørd. um afbrot manna vid sjálfa sig, hvar hún sjálf hvørki má vyrdast med þeim áreitt, nè Almennings persónu- og eigna-fridhelgi leidd i hásska, og eintómur náttúru-breiskleiki, en alls engin skadsemdar lyst eda ásetníngur ad vera þeirra undirrót; ísjárverdt þvi ad skérda freklega med sakaløgum persónu-og eigna-frjálsrædi manna, sem gód borgaraleg løg øllu framar vernda Þvi sá Løg helzt temprad endileagjanda svall og óhóf, þó ecki fyrr enn framm úr keirir, med því ad setja svallaran-um fjárhalds- edur tilsjónar-mann, en — ótlina-bæra ást, eptir því, sem hún frek eda hættuleg verda má fyrir almennings sidgædi, med bóta eda loks líkhamlegum aga, hvar um lagánna

bod hafa verid margbreytt og vyrdst mishentug á elldri og seinni tímum.

## §. 3.

Legords-brot nefnum vèr afbrot þau, sem gipt edur ógipt fólk, med lausúng, fremur mót Landsins gyldandi saka-løgum. Þesshättar brot giptra nefna menn hórdóm; ógiptra þar á mót lausaleik eda fridlulífi. Verdi þau framin af giptum eda ógiptum í svo náunum blóds- eda mægda-tengdum, ad Guds og landsins løg meini þeim hjónabønd, kallast þau blódskømm og meinbuga-brot. Øll þesshättar brot skiptast aptur í adgreindar tegundir, mis-saknæmar, af hverjum eg sídar mun nefna nockrar, sem einna optarst fyrikoma hèr á landi. Øll þvílík afbrot hafa vor elldri og nýrri sakaløg ýmislega sektad, en nýustu lagasetníngar þó stórmiklu sleppt af þvi þúnga áfelli, sem hardgèrdari þenkingarhättur elldri tídar, enn þótt í gódum tilgángi, valdi til ad afstýra þesshättar glæpum, þeim þó máské midur sambodid eda þar til hentugt. Eg vil hèr einúngis nefna þau medal vor nú gyldandi løg um legords-brot, einninn med tilliti til fallinna Dóma Yfirrètta um þau, á seinustu árunum, og undir eins adgreina framar þessi brot.

§. 4.

Hórdóms-brot. Þessi lausúngar tegund sektast ad því leiti hardara enn fridlulsi, ad giptir, sem einir fá hórdóm drýgt, brjóta þar med hjónabands sáttmál og olla optar megnu ósamlyndi og óspektum í hjóna sambúd. Þó opt megi margt til afbøtunar þeim bre[i]skleika finna, svo sem styrdt atlæti eda bága einlugu, alldurdóm eda lángvinnann lasleika, á stundum vidurstyggilegann sjúkdóm, til dæmis: holdsveikju, skirbjúg, franzós, etc. annars hvers hjóna, skilnadar fráveru og fjarlægd þess um lángann tíma, eda sakfelli, er ødru kann til ad vilja, t. d.: ærueda frelsis-tjón svo fleiri árum sæti, hvers vegna hitt heidvyrda skirrist hins samvistir, þó leg ecki fyrir þad leyfi hjónaskilnad, heimila samt vor gildandi løg ecki ad sleppa þvílíkum afbrotum sektalaust, á medan hjónabønd med Dómi eda Konúngs úrskurdi eru ecki algjørlega søgd á enda kljád. Þó gefist tilfelli, sem allteins hjá oss mæla mega bót hrøsun ósekilinna hjóna og frían frá reglulegri hórdóms sekt, svo ennur minni og hæfilegri verdi því brotlega valin, t. d.: ef annadhvert þeirra hefir løggylda skilnadar-orsøk vid hitt, en fellur þó ádur enn skilnadar-dómur útfer edur algjørleg ónýting hjónabandsins; hvad jafnvel til állkrar vorkunar vyrda mætti þeim, sem med Yfirvalds leyfi skilin verid hafa í 3 ár ad bordi og sæng, sókt um algjørlega ónýtingu hjónabandsins, en falla ádur enn Konúngs

leyfi ødlaſt um hana; og eins yfirgéfnum maka, er ſellur ádur 3 ár liðin ſéu, ſvo ſkilnadar Dómur ſáiſt, (ſjá Kóngsbréf 14da Nóv. 1800, nefnt í §. 15da nidurlagi); Þetta ſamqvæmt áſtædum NL. 3 — 18 — 15, No. 2, 2 og 5, hverjar — þó ſjálfra NL. 3—18 Kap. ecki ſé oſs gefin, ſem lög, finnaſt ſamhljóda í Fridr. Kongungs II. hjónabands Artikulum frá 1582 og ſtrída í engu mót Stóradóms bodum, hver einkanlegaſt af elldri lögum um Legordsmál vóru hér löggyldt med Kóngsbr. frá 19da Febr. 1734. Merkilegt er oſs og í þeſſu tilliti Kóngsbr. frá 20ta Marz. 1634, ſem ad miklu eptirgéfur Legorda-ſekt yfirgéfnum Mökum þeirra, ſem Tyrkjar rændu burt úr Veſtmannaeyum árid 1627, (ſjá Dóma þar um í M. Kétilsſonar Kóngsbréfa Safni II. P. blſ. 377—78.)

§. 5.

Stóridómur lagdi 6 marka ſekt vid hórdómi í fyrſta ſinni af hverjum ſvo brotlegum í einfølldum, ſem ſvo nefndiſt, þá annad var ógipt, en 12 merkur í tvøfølldum, þá bædi vóru gipt, í ødru ſinni ſømu féſekt hálfu aukna og húdlát, og ef fé ſkorti til lúkningar, átti auk húdlátſins adra líkhamlega refſingu á ad leggja eptir 12 ſkynugra manna dómi; í þridja ſinni vardadi líftjóni. Ágegngi, ellu framar enn lagá áſtædur, olli misjafnra útleggingar, ſem optar, um réttann útreikning þeſſa ſakeyris, a) hvad

6 merkur gylda ættu og í hverju gjaldaſt; b.) hvert ordid: hálfu aukin ſekt, þyda ſkyldu 9 eda 12 merkur í ødru ſinni. Samqvæmt réttum ſkilningi um merkur verd, greiddu Kongsbréfs frá 25ta Júlii 1808 §. 11—12 úr hér nefndum vafa, undir eins og þær greinir framvegis faſtſettu: ad hórdóms-ſtraff í 1ta ſinni vera ſkyldi 9 rdla (nú 9 rbdla ſilfurs) ſekt, en 18 rdla í ødru ſinni; þeſſar bætur leggjaſt til ſérhverrar Sýſlu Sakafalls kiſſa. Auk þeſſa bætur frá 2 rdlm til 10 rdla (nú rbdla ſilfurs) til Júſtitz-kaſſans í ſérhvert ſinni, hverjar Dómarinn, eptir Kóngsbr. frá 15da Marts. 1780 eptir málavextum (helzt efnum þeſs ſeka), á med Dómi ad áqvarda, og kémur ſú ſekt til Júſtitz-kaſſans í ſtad Sýſlu-útlegdar, ſem Tilſkip. frá 3ja Júnii 1746 í §. 12 álagdi brotlegum í hórdómi. Þar hjá aftók fyrrtjed Kóngsbréf frá 25ta Júlii 1808 ádur áſkilda þockabót til Tukthúſsins í opinberrar Aflauſnar ſtad, og eins húdlát fyrir hórdóms-brot í ødru ſinni. Fyrir hórdóm í 3ja ſinni, ſetti þeſs 13di §. 2ja ára Tukthúſs-vinnu, en engar bætur, í ſtad ádur gyldanda lífs ſtraffs, en Tukthúſs vinnu í 3 ár eda ſkémri, býdur nú Kóngsbr. frá 3ja Maji 1816 í §. 2. hér ad afpláua med vandarhagga reſſingu, eptir Dómi.

## §. 6.

Eins og NLeg gjerdu Stóradóms erd: „gjaldi hvert um sig" vafasamt, hvert ógipt persóna, sem félli med giptri, gjalda skyldi hór-dóms sekt; ad sennu finnst nockur ástæda í lögum til ad játa því, þegar adgætist NL 3—18—16, 8. (samqvæmt Fridr. II. Hjónabands Artikulum) og 3—18—7, í samburdi vid NL. 6—12—4 6—13—12 og Jónsb. Mannh. II. Kap., samt er sú meining ecki vid uppihsta Dómstóla vidtekin: þesir auk þessa meira méni sér enn med, svo sem hér í lagi: a) ad ógipt persóna, sem fellur med giptri, ecki riptar neinn hjónabands sáttmál, þó hún tilgángslaust af hvörsun eda lausángar freistni medverki þessari til þeirra rófs og er henni því ecki jafnsek, sem bundin vid færri skyldu band. b) Ætlun Stóradómur med beinum ordum, eins og NL. 6—13—25, ad þeir, sem sektast egi fyrir hórdom sén löglega eingiptir; ödrir enn giptir fellu því ecki í hórsektir; en ordatiltæki hans: — gjaldi hvert um sig — verdur því svo ad skiljast: "hvert heldur þad er giptur Madur eda gipt Kona, sem brotleg verdur, og ad brotlegra qvenna sekt skuli jafnstór brótlegra karlmanna." c) Er sú útlegging laganna vidtekin bædi af Hæstarétti og ædsta Stjórnar-rádi Justitz málefna og hér auglýst til almennrar reglu med Canc. bréfi. frá 22rum Dec 1792, en hún þar í talin samqvæm NLögum, (sjá Nótu c.) til §.

10). Vitanlegt er og, ad Leggjafarinn, frá Ríkisins ædsta Dómstóli med sínum Dómum, skéè svo úr misskildum lögmáls-greinum, eins og hann vill, ad þær almennt skiljast skuli af þegnum sínum a).

§. 7.

Þó er enn eptir athugaverdur sá mismunur, sem Stóridómur gjördi á einföldum og tvöföldum hórdómi, hvar í fyrra tilfellinu önnur Legordsseka persónan var gipt, en hin ógipt; var sekt þeirra giptu 6 merkur edur 9 rdlir; en sú ógipta, sem ad eins í laus.leik féll, átti hans sekt ad gjalda; í sídara tilfellinu, þegar bádar giptar reyndust, var sektin tvöföld fyrir hverja þeirra, þad vóru 12 merkur edur 18 rdlir. Þad er hverttveggja, ad á medan Sakafallid var ödrum mót vissu, árlegu afgjaldt ljent hér á landi, mun optar hafa ordid spurníng og þras um sektir fyrir tvöf ldann hórdóm enn sídan, enda má nú sá tvöfalda sekt, sem Stóridómur ónáttúrlega áqvardadi, álltaft eldúngis aftekin, þó ecki med berum ordum sé, samt med þegjandi vilja Loggjafarans, auglýstum í Kóngsbrèfi frá 25ta Júlii 1808 §. 11 og 12, hvar hann, án þess ad adgreina framar hórdóm í einfaldann eda tvöfaldann, eda fyrir þessar greinir hans, sem ádur tiltaka ólíka sekt, fastsetur þessa med berum ordum, svo frá-

a) Sjá nótu c) til §. 16, No. 2.

brugdna Stóradómi, ad hún í 1ta sinni sé framvegis 9 rdlr. en i 2ru sinni 18 rdlr; þad er ad skilja: hvert sem brotid ádur taldist einfaldt edur tvøfaldt. „ Hún skal „ segir hann " vidhaldast eptir Stóradómi, þó svo, ad hún festsetst (fyrir 1ta sinn) til 9 rdla." Fyrir einfaldann var hann ætid 9 rdlir eda 6 merkur, sem nú, en — ordin: þó svo — gèfa til kynna nýa, Stóradómi frábrugdna, áqvørdun, en hver hún sé, má gløggt rada þar af — ad einfalds og tvøfalds hórdóms adgreining nefnist ecki framar, eda misjøfn sekt eptir því, eins og í Stóradómi segir, heldur ad eins hórdómur í 1ta og 2ru sinni; hún festsettist þá — í øllum tilfellum — til 9 rdla. Ad sønnu gjøra RE., af hverjum alls eckert um Legordsmál er hjá oss løgleidt edur gyldandi, (því berlega undanskilur þau í þeim málum Kóngsbr. frá 19da Febr. 1734, en býdur Stóradómi hér ad fylgja), straffsmun á einføldum og tvøføldum hórdómi, en auk þess ad bjóda og sekt sérhverrar hórsekrar persónu vyrdast apeck hvert sem sá breiskleiki hendir hana, ad brasa med giptri eda ógiptri, og ótíma ástar tefrun, en því nær aldrei illgirni eda á etulngi ed skada adra, má tilreikna hrøsun manna vid lego ds brot øll, svo ad ósanngjarnt vyrdist, ad sekta menn tvøfaldt fyrir þá hendingu eina, hafa þau tilfelli — ef nockur nú í lánga tíma — vist fundist sár-fá, ad tvøfaldar hórsekrir hafi vyrdst í

Danmörku og Norvegi heimfærandi til lagabrota, eptir DL. 6—13—25, NL. 26. Art., og þvi su adgreining enn sídur hér framvegis sanngjörn edur naudsynleg, sem sá lagaskipada advaran til annarlegra giptra persóna, sem ecki láta vilja af opinberum, blygdunarlausum, hneixlanlegum og hneixlandi samfarum (eptir NL 6—13—3, nefnil. gjørd af Presti og Medhjálpara eptir NL. 2—9—8, 9, itrekudum sinnum, sjaldnar mun sannast í tíma og lögleg undangengin þar) en hér hefdi þvílik ecki sídur átt til tvøfalds hórdóms sektar ad vera áskilin, enn Stóridomur hefir af Prestum og Sysslumønnum krásid mót fridlulisi; af Prestum einkum þrisvar á ári hverju í 5 ár. (Samanber §. 6 og nótu e) til §. 16. No. 2.) Ad Hæsti-réttur ecki heldur sann tvøfaldar hórbætur hér í landi videga fyrir 2 hór-brot konunnar V. med giptum manni, og þrálátu sambúd og samsængun vid hann í 2 ár, og þad mót Hreppstjóra itrekudu forbodi (hvar um Kl. póstur 1820, bls. 163—67, gefur greinilega skírslu), sýnir þar prentadur Hæsta-réttar Dómur hér um fallinn þann 10da Maji 1820. (bls. 166.)

§. 8.

Hvar løgin bæcka straff eda sekt afbrota, eptir því, sem þessi itrekast opt til, svo sem í 2ru, 3ja, 4da og 5ta sinni eda optar, ætlast þau almennast til, ad brot metist til straffs, og verdi

eptir því saknæmi, sem hinn seki er optar ádur fyrir þau dæmdur, og hefir því med ítrekun þeirra vottad enn straffsverdara náttúrufar eda tilhneígingu til þeirra, enn ad lagauna, honum átur dæmda edur álagda hegning fái hann betrad, hvers vegna nýa og þyngri honum í hvert sinn velja þurfi, svo ad hann sídur med þeirra framhaldi vanvyrdi optar laganna bendandi aga; af mørgum dæmum er hér nóg ad tilnefna NL. 2—9—8,11, 6—11—14, 15. 6—13—16, 17, 25. Tilskip. 20ta Febr. 1789 §. 1, 5. Kóngsbr. 25ta Júlii 1808, §. 7, 11, 13. og sjálfann Stóradóm um Legords-brot. Hvad hórdóms-straff sérílagi áhrærir, tjáir Kóngsbr. frá 1ta Febr. 1799, hér þinglýst, þetta straff óheimfærandi án Dóms. Dóm krefur útþryckilega Kóngsbr. frá 15da Marts 1780, í hvert sinn um þær 2ja til 10rdla bætur til Júsíltz-kassans, med hverjum sekir í hórdómi skulu leysa sig frá Sýslu útlegd, hverja Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 §. 12. þeim á leggur, og til hvers strafs þá þegar vafalaust þurfti dóm, eins og §. 10. vottar, ad hann ætíd, sem fyrri, gánga skyldi um fjórdúngs útlegd fyrir 4da lausaleiks brot. Nefnt Kóngsbréf frá 15da Marts 1780 um þessar ávissu hórbætur (eptir efna ástandi vidkomenda), sem med Dómi tiltaka á, stadfestu 2 seinni Kóngsbréf frá 25ta Júlii 1808 § 11, og 3ja Maji 1816 § 4; auk þessa baud NL. 1—22—1 bótą

afmidlun alla ad gjøraſt á þíngum, en Tilſk. frá 6ta Dec. 1743 §. 23, Kóngsbr. 11ta Apríl 178 og Tilſk. 1 ta Júlii 1800 §. 10, ad all- ar óviſſar bætur, 2 rdlm meiri b), dæmaſt ſkyldu vid Rétt (ſja og Handbók mína fyri hvern mann 1812, blſ. 141-145, 160, 223-224, nótu a), og í henni nefnd Cancbr. frá 19da Jan. og 9da Marz 1793), en Kóngsbr. frá 5ta Dec 1794 faſtſetti, ad eptir Tilſkip. frá 5ta Apr. 1793 (ſem tjáir þad óſamqvæmt Rétt- viſinnar grundvallar áſtædum, ad nockurr metiſt ſakfallinn, ádur enn dæmdur er ad løgum vid Dómſtól), ættu mál um ofdryck- ju og lauſúng, ſem øll ønnur, ad ákjæraſt og dæmaſt vid Rétti Ad undanteknîng ſú, ſem Kóngsbréf frá 3ja Maji 1816, í §. 6. ſidan gjørdi hér landi, um nockur bóta-mál, ecki nái til hórdóms bóta, er med tilliti til Kgsbrs. frá 15da Marz 1780, hér ofan-nefnds, øllum

b) Amtmønnum einum leyfir ſú grein fyrir ſmá- vegis Póliti yfirſjónir, dómlauſt ad úrſkurda ſeckum bætur allt ad 2 rbdlm S., en engar hærri. En annars fá bætur hvergi ſtad haft án Dóms, ecki heldur Póliti-bætur nema eptir ályktun vid Póliti-rett, og til ſama ætlaſi Kóngsbr. frá 11ta Apr. 1781, ſem bannar Appell — hvad ecki paſs- ar nema um Dóma — í viſſum ſmávegis bóta og útláta málum. En § 4. Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808 ætlaſt og til ad lauſaleiks og hór-bæt- ur dæmiſt, óg ad reikníngar fyrir þær til Saka- fallskaſſa, ſanniſt med útſkrift af Þíngbókinni.

augljóst, og ad um Sýslu-vistar bæturnar fyrir 1ta og 2ad hórdóms brot því ætíd þursi enn þá Dóm, hvert 2 rdlr séu eda þar á milli, allt ad 10rdlm, og þá sjálfsagt undireins um adrar fastsettar hórsektir, eptir Kóngsbr. 25ta Júlii 1808, til hvers þess §. 4. og ætlast.

§. 9.

Af ofannefndri reglu leidir: ad eptir því, sem dómar opt eru ádur gengnir yfir sekudum, um framinn hórdóm, ber seinni brot hans 1 2ru, 3ja etc. sinni um sama til sekta meta, álíkt því, sem leg bjóda um þjófnad, svo ad eins og þjófnadur framinn á fleiri stødum, um hvern dómur þó er ecki genginn, ákjærist og dæmist í einu edur sem einn, og reiknast til sekta — ad finna tølunni til — eptir tølu dóma, sem yfir þann seka gengnir eru um þjófnad, svo ber einninn sameginlega ad ákjæra og sekta hórdóms-seka í einu, fyrir ádur ósektud Legords-brot hvers eins, hvert sem eitt er edur fleiri, og meta þau øll sem eitt, eptir því 1 2ru, 3ja eda 4da sinni, etc. sem hann ádur er opt eda sjaldnar um hórdóm dæmdur; þetta því framar, sem Kóngsbr. frá 20ta Dec. 1799 ætlast til, ad líkum reglum sé fylgt um strøffun allra sakamála, sem um þjófnadar løgteknar eru. Svo kann einhverr, til dæmis: þrísvar ádur ad vera uppvís ordinn ad Lausaleiks-broti og nú ad

skjæraſt um hór, hverninn ber þvílíkann þá ad dæma? eg tel vafalauſt, ſem fyrir framinn hór í fyrſta ſinni, í 9 rbdla ſilfurs ſekt til Sýſlunnar Sakafalls-kaſſa en eptir eſnum hans, í 2gja til 10 rbdla ſilfurs bætur til Júſtiz-kaſſans, og mundi ſkyldt ad ſanna ſkilagreín til beggja kaſſanna, eptir §. 4. Kóngsb. frá 25ta Júlii 1808, med úſkrift þeirra Dóma. En — ſegja menn — þeſsi hefir þó vottad lángtum frekari lauſúng enn ſá, ſem fellur alls einuſinni í hórdóms brot, en ſektaſt þó jafnt? Þad er samt ecki í Dómarans valdi ad auka vid nefnda ſekt, fyrir þau 3 lauſaleiks-brot, fyrſt Plak. frá 12ta Júnii 1812 nú lætur þau óſektud (hvar um framar vid lauſaleiks-brota ſekta yfirvegun). Eckert heimilar honum ad meta í þeſsu tilfelli annad enn hórdóms brotid til ſtraffs; og vilji menn álíta þetta vel ſvo ad fylla tölu hinna, ſvo ad nú ſé hann ſekur, ſem um 4 ádur óſektud lauſ. leiks-brot, verdur þeſſara 4ra lagaſekt eptir Tilſkip. frá 3ja Júnii 1746 §. 10, ſamt minni, nefnil.: ſjó dúngs útlegd ein, ſem bædi eptir ſemu áſtædum, líka eptir Cancelli-ſkipun frá 4da Nóv. 1780. allſtadar, hvar leg tiltaka Sýſlu eda Fjórdúngs-útlegdar ſekt, í hennar ſtad ad dæma bætur frá 2 rdlm til 10, beint eptir Kóngsbr. frá 15da Marz ſ. á., ſenda mundi vid þeſſar bætur, en hér vid bætiſt nú ſú reglulega hórdóms-ſekt í 1ta ſinni, eda 9 rbdlr S. Svo mundi

og sá, sem einusinni er dæmdur hórdóms-sekur, en verdur sídan uppvís ad 3ja hórdóms- og 1 eda 2ur lausaleiks-brotum til, øllum ó- ákjærdum, nú réttilega løgsækjast og dæmast, sem hórdómssekur í 2ru sinni, til 18 rbdla silfurs bóta til Sakafalls-kassans, en eptir ástandi hans frá 2ur til 10 rbdla silfurs til Justitz-kassa, verda þá lausaleiks brotin sektalaus. Efa-laust hefir hann þó med þeim mørgu brotum, látid blygdunarlausari og frekari lausúng í ljósi enn sá, sem fellur ad eins í ø d r u sinni med einu broti í hórdómi, en hann verdur samt ad ad sektast eins, þar løg leggja ecki í Dómarans vald ad auka á løgtekid straff þess, sem ad eins einusinni ádur hefir þegid, og nú fyrst ákjærist um ad hafa vanvyrdt laganna bendandi hegn-íngu fyrir lausúng. Sé og forsómun Yfir-valda ad átelja og straffa í tíma hans fleiri brot, or'ek til, ad hann ecki optar straffadur er, heldur máské leitist þar vid til ad halda þolliki midur sæknæm, ber enn sídur ad hann þeirrar forsómunar gjaldi í hinna stad, þegar hann fyrst í ødru sinni ákjærist.

## §. 10.

Stóridómur, dønsk og norsk Løg legdu lífs-straff vid hórdóm í 3ja sinni framinn; en lengi hafa løgvísir menn og vorir Løggjafarar á-litid þetta straff ofhardt og ósambodid þessu af-

broti, sem eptir edli þess og þeim hlutadeganda maka, sem eginlega má vyrdast med því skérdtur rètti sínum, er ællu framar prívat enn opinbert afbrot, og svo álitu þad vor elldri leg. Því hafa og Kongángar verir, einkum á seinni og mildar þenkjandi tídum, ætíd nádad þá, sem fyrir hórdóm dæmdir vóru frá lífi, og sett vægt straff í stadinn; líka þráfaldlega almúngis uppgéfid allar sektir fyrir hórdóm, eda mildad stórum strøff fyrir optar itrekadann (sjá Kóngsbr. frá 16da Maji og 19da Okt. 1819, í Alp. 1820, bls. 89). Þó vard lífsstraff fyrir hórdóm í 3ja sinni fyrst aftekid á Íslandi med Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, §. 13., en 2gja ára Tukthúss vinna í stadinn sett, í hverrar stad nú koma víss vandarhøgg, eptir Dómarans áqvørdun, samqvæmt Kóngsbr. frá 3ja Maji 1816, § 2, og þessi hefir konúngleg nád á stundum eptirgéfid, og sett fárra daga fángelsi vid vatns og brauds viduværi, í þeirra og ádur fyrir 3ja hórbrot, gildanda lífsstraffs stad, hvar um annad Kóngsbr frá 19da Maji 1819 (í Alp. 1820, bls. 17) ber vitni. Þanninn mildast í mørgu vor sakalog med tímunum, eptir því, sem reynsla og laúnudan sannsæ ie Legajafara um, ad hæka straff laga, ósæmbodin afbrotanna edli og stærd, sé midur holl eda réttlát. Samt hefir enn þá ecfert lagamál aftekid dønsku Laganna bodord um lífsstraff í Danmørku, fyrir framinn hór í 3ja

sinni, en Dómstólar þar álita samt Løgjafar-ann, med fyrrnefndu Kóngsbréfi fyrir Ísland, auglýst hafa vilja sinn, hversu þetta brot medal þegna hans sektast, egi, og lífsstraffid því, allt-eins þar, aftekid vera.

En — hversu ber nú ad straffa framinn hórdóm í 4da og 5ta sinni, eda optar? Um þetta þegja øll vor løg, sem ecki hafa ráð gjørt fyrir tilviljun slíkra afbrota, fyrst 3ja brot vardadi líf enna sekn. Sýndist því líklegt, ad, þar Kóngsbr. frá 25ta Júlii. 1808, § 13. mild-adi lífsstraffid fyrir 3ja brot, mundi 4da broti enn hæfa þetta, fyrst jafnvel engin útþrycki-leg løg høfdu umbreytt því fyrir 3ja brot í Dan-mørku. En — Løggjafarinn hefir med Dómi Sínum, felldum í Hæstarétti, þann 9da Maji 1820, kunngjørt allt annad álit sitt þar um, og sýnt hversu 4da hórdómsbrot nú réttilega straffa beri, en þar med gefid Dómstólum sín-um reglu til eptirbreytni. Med þeim Dómi er G..... G...... — enn þótt 4sinnum uppvís ad hórdóms-brotum, og fyrir sérhvert þeirra brota dæmdur ádur ad løgum — af Hæsta-rétti dæmdur til ad straffast med þrísvar 27 vandarhøggum, sem eptir Kóngsbr. frá 3ja Maji 1816, §. 2, samgylda 3gja ára Betrun-arhúss-vinnu; var þó þessi G... þar hjá á-kjærdur um bløglega medferd á lifandi fæddu barni sínu af seinustu barnsmódur hans, hverja hann ljet fæda þetta í dulsmáli, og leitadi hvørki

henni né föstrinu neinna reglulegra hjálpradis medala; batt ecki fyrir nablástreng barnsins; gróf þad sídan leynilega og leyndi brotinu, hvad líklegt þókti ad auka mundi á sekt hans. (Sjá framar um mál þetta Klpóst 1820, bls. 44.)

Af þessu verdur nú líklegast rádid: ad 4da sinni framid hórdóms-brot (þá Dómar um sérhvert hinna undanförnu ádur fallnir eru), vardi nú 3gja ára Betrunarhúss-sekt, edur hennar samgyldi í 81 vandarheggi, þek sidur vil eg minda mér af þessum Dómi, ad Hæstiréttur álíti 2gja ára Tukthús – sem eptir Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, §. 13, er einúngis fyrir 3ja brot ákvardad — framvegis vera ega hærsta hórdóms straff, og itrekun þess optar enn þrisvar, engu saknæmari, bædi af því, ad straff þess í 1ta, 2ru og 3ja sinni vex svo stórum, frá 9 og 18 rdla bótum til 2gja ára Tukthúss, en ótiúlegt er, ad þetta skyldi úr því hætta ad aukast, þvert á móti almennum grundvallar ástædum sakalaga, sem eptir því þyngja afbrota straff, sem þau optar ítrekast, og laganna ádur gefna agandi bending, þar med optar af sakamönnum er vanvyrdt; líka vegna þess, ad sjálf þau nýustu sakalög bera vitni um, at ítrekan afbrota, jafnvel hvislegs edlis, framin af ádur dæmdum, eykur stórum straff þeirra, loks til lífs-straffs, þó þetta ecki fyrir þid sídarsta, lægi annars vid því afbroti, heldur eitthvert opinbers erfidis, í hverju tilliti eg vísa hér á Til-

skip. frá 11ta Marts 1818, §. 2. 3. (sjá Klp. 1818, bls 133, med nótu), líka er audvitad, ad løg enn sidur ætla háskalegri og þrálátari saka-mønnum vægra straff enn ødrum. Samt er audfundid: ad Hæstiréttur hefir álitid hór-dómi ósambodid, eptir 3ja brot, ad auka straffid í jafnvaxanda (geometriskn) hlutfalli, sem ádur, þegar einúngis 1 Tukthúss-vinnu ár (edur ígildi í vandarhøggum) bættist vid fyrir 4da brot, og fann ósanngjarnt: ad þetta, líkt þjófnadar itrekunar straffs-reglum (til d.), færi vaxandi til margra ára aukins Tukt-húss- eda Festingar-erfidis c). Máske því yrdi rádlegast nú ad dæma fyrir hórdóm í 5ta sinni til 4 eda 5 ára Betrunar-húss vinnu í Kaupmannahøfn, uns ný Løg framar ákvarda straffid.

c) Nú kunna sumir máskje halda: ad 4da hórdóms-brot Gs. . se í Hæstaretti sektad sem 3ja, med ígyldi 2gja ára Tukthúss í hýdingu, en ad þar se 3ja árs ígyldi vid hann bætt, vegna medferdar hans og leyndar á barninu, hverju hann vyrd-ast má veitt hafa fullkomid bana-tilrædi med øllu hans hirduleysi. Eg er samt af ádurtøld-um røkum, ecki þeirrar meiningar, heldur hvad barnid áhrærir, ad þar ecki var sannad á hann, ad hafa ordid þess banamadur, hafi medferd hans verid óhegndri sleppt — þar vandhæfi er og ófært, ad sekta menn uppá líkur einar, í stad fullvissu, sem sakaløg krefja; en forsómann hans og leynd brotsins sundid assøkun frá ser-legu straffi í lífsháska þeim hann sjálfur stód

§. 11.

Elldri Løg, þar á medal Stóridómur, leggia á stundum bædi líkhamlegt og bóta straff vid Legords brot. Manninn vardadi hórdóms-ur í sru sinni bædi húdlát og hálfu auknum sektum vid áqvednar fyrir fyrsta sinn. Eins

—— eptir imindudu lagastraffi — ef þetta hans 4da hórdóms-brot yrdi uppvíst — En — hvad vard um Barnsmódur hans, sem í Dulsmals fæddi? Hærstirettur dæmdi hana fría frá frekari ákiærum, en þó til alls málskostnadar. Vafalaust tel eg þann Frikenningar-dóm bygdan vera, — enn þótt svo yfrid stráleitann N.L. 6—6—7, 8. — á þeim náttúrlegu rokfemdum: a) Ad hún, sem hjú, stód þá algiorlega undir G s. yfirrádum, sem husbónda, og fieck litlu vidrádid. b) Ad megn (enn þótt ótímabær) ást til hans, sem barnsfødurs innkomin, og vonin um ad eignast hann, þegar skilnadar-dóm fengi, hafi aptrad henni frá ad setja sig upp á móti honum, med opinberun sins barnburdar utifrá, en olla þar med máske bana hans, og undir eins spilla sjálfri sér hans eigner von og medala til barnsins framfæris. Hafi þvi fundist náttúrlegast, ad sleppa henni, sem fáradlings aumingja í þvilíkum kríngumstædum, frá hegníngu og frekari ákjærum, einkum þar hvergi var upplýst, ad hún nockurntíma vissi barnid vera lifandi fædt, þar G... sagdi henni þad andvana, og hún því alls eckert vann til þess bana. Ad hún þanninn slapp frí, vóttar samt augljóslega, ad Hærstirettur ecki metur fall ógiptrar persónu med giptri, til hórdóms-sektar, og stadfestir því þar um ádur talid í §. 6. bls. 11.

var hverttveggja optar sambundid fyrir barn-tignir í meinbugum. Yngri straff løg hafa þar á mót nú í 30 til 40 ára optarstnær áhugg-jusamlega adgreint þessi straff um flest afbrot og fundid beggja samblans midur hæfa. Þar um bera þau sjálf auqljóst vitni, eg nefni, til dæmis: af mørgum Tilskip. frá 20ta Febr. 1789 um Þjófnadar-straff, sem þessa vegna øldúngis aftók tvígjalds-bætur og búslódar mißir; sømuleidis Tilskip. frá 27da Sept. 1799 um misbrúkad prent-frelsi; og — svo eg komi hér aptur til Legords-mála — setti Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 í §. 10. bótalaust fjórdúngs út-legd fyrir 4da lausaleiks-brot, og umbreytti þar í Stóradómi, en — eptirtakanlegast gjørdi þad Köngsbréfid frá 25ta Júlii 1708 í §. 12., sem fyrir hórdóm í 2ru sinni setti bætur einar, en aftók Stóradóms þeim sameinad húdlát, baud ecki heldur í §. 13. neinar bætur ad gjalda þegar sú grein fastsetti 3gja ára Tukthús-vinnu fyrir hórdóm í 3ja sinni. Allt eins baud Köngsbréfid frá 15da Marz 1780 med bót-um ad afplána Sýslu útlegd fyrir hór, medal annara hórsekta, og Cancbr. frá 4da Nóv. s. á. (sjá Løgþingisb. 1787 bls. 17) samqvæmt því Köngsbri. ad dæma bætur í stad Sýslu- eda fjórdúngs-útlegdar í øllum tilfellum, hvar løg hana hefdu áqvardad. Hvar líkhamlegt straff því vidliggur fyrir legords-brot, finna bætur ecki framar stad, og hitt ecki lengur át-

samt þessum, nema blódskammar-málum, hvar lausafé þess seka ásamt lífinu eun mun ega vera forirgjørt eptir Stóradómi, þó Tilskip. frá 23ja Maji 1800, hèr løgleidd, leggi lífs-tjón eitt þar vid, en ecki búslódar, samqvæmt N°. 6—13—14 og, þótt ónáttúrlegt vyrdist, ad saklaus børn og erfingjar ens seka hèr, sviptist eignum og arfi fyrir sama afbrot, en ecki i Danmørku og Norvegi; hvar um meira sídar.

§. 12.

Náttúru-løgmálid krefur til náttúrlegs og gylds hjónab.nds einúngis, ad manni og konu komi saman um, æfilángt ad lifa og búa saman, sem hjón, og uppala vel þau børn, sem þau kynnu þanninn saman eignast. Hátidlega lýsíngu þeirra hjónabanda fyrirfram af Prestum eda samanvígslu krefur þad ecki; hún var og fram eptir øllum øldum ecki løgskipud, ne er þad enn í dag í ymsum kristnum løndum. En borgaraleg løg fundu sídar alla naudsyn til ad bjóda hátídlega auglýsíngu og festíngu hjónabanda, til ad halda hvikulli ást í taumi, í stadinn fyrir, ad reyka híngad og þángad, og til ad varna þar med lausúng; líkt og Páll Postuli býdur 1. Cor. 7, 2., en binda fast féløg þau, sem mest eru øldum og óbornum og komandi ættqvíslum árídandi. Samt vóru Prestar ecki tilqvaddir hjón ad vígja fyrr enn á seinni tímum eptir Canoniskum Rètti, þá páfalegt vald gjørt hafdi

hjónabond od Sakramenti. Þá fyrst áttu Prestar ad lýsa med hjónum og syngja yfir sidan, eins og vottar Kristinnréttur Arna Biskups Kap XVI. og ber fyrir pápiskra Fedra setninga þar um, sem bannad hafi leynilegann hjúskap. Þó festu menn sér sjálfir konur, med samþycki réttra giptingar-manna, eptir þar tilneindu formi, og því, sem Jónsbók tilsekur í Erfdatals l. Erfd. Augsborgar Trúarjátning frá 1530 byduv eckert þar um, nema ad Prestar giptast skuli þar þeir ecki ödruvisi fái, eptir þeim medfæddri frjófgunar fýsn, skirlisi vardveitt; en fyrst vard á Tridentinska kirkjufundinum 1563 viðtekið, „ad þeirra hjúskapur skyldi ógyldur álitast, sem Prestur hefdi eck samanvigt." Samt urdu náttúrleg hjónabönd og barneignir í þeim vígslulaust seint mjög í lögum sektud hjá slíkum hjónum, nema hvad börn þeirra urdu sidur arfgeng, eptir bádum tilnefndum greinum vorra Lands-laga, en lausúngar vissar sektir áqvardadi fyrst Stóridómur 1565, sidan Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 og Kóngsbr. 25ta Júlii 1808.

Samsængun trúlofadra á undan hjónavígslu baud fyrst Fridreks Konúngs II. Hjónabands Ordinantia frá 1582 ad sekta, tiltók þó enga vissa sekt; en Kristjáns IV. Ordinantia frá 1607 baud Prestum alvarlega ad fyrirbjóda trúlofudum samsængun, undir vensluga bætur og skriftir. Kristjáns V. D. og

NLøg tiltökn þær i 6—13—1, þó lángtum minni enn fyrir fridlulísi.; þessar bætur nádu samt aldrei réttilega til Islands, hvar ekkert af NL. 6 B. 13—Kap. er gyldandi. Ad sönnu bannadi Tilsk. frá 3ja Júnii 1746 í §. 4. þjónaefnum ad flytja sig edur vera saman á sama bæ, á undan trúlofun, lagdi þó engar bætur vid; en Tilsk. frá 19da Febr. 1783 í §. 6., ef trúlofadar persónur, sem nutu ecki adallegra frilheita, gjördu slíkt, skyldu þær greida bætur, sem fyrir oftímanlega samsængun, hverja lög-gjafarinn taldi líklega úr því—hvert sem hún saunadist edur ecki—sem var sérlegasta og einstök laga-grunsemd um sekt, en því samqvæmt, setti Köngsbr. frá 25ta Nóv. 1791 þessar bætur fyrir hjón, sem átt hefdu barn saman svo snemma, ad þad fædt væri fyrir hjónavígslu. Þessi almennu Ríkjanna leg vyrdast þó í þeirra bóta tilliti, aldrei hafa til Islands nád, hvers sérlegu Legords-sekta lög, engar þvíl. kor bætur fyrir oftímanlega samsængun hafdu hér álagt, og þær því aldrei átt ad krefjast, þar sú spurníng strax hefdi annars mátt liggja vid: hversu miklar þær bætur hér reiknast skyldu? t. d.: þegar NL. 6—13—1 lét þær í Norvegi verda frekann ½ fyrir karlmann mót lausaleiks-bötum, en fyrir konu hálfu minna, og lausaleiks-bætur í fyrsta sinni hér vöru 18 álnir, en þær bætur máttu þó í Danmörku og Norvegi afmidlast til 24ra skildínga; eins hér eptir

ir Köngsbr. frá 25ta Júlii 1808 §. 10., tók vart ad dæma ⅓ þar af eda 4 ß í þær sektir. Nú þar á mót vyrdast bætur þessar, (sem hér annars aldrei leggyldtar vóru), öldúngis burtfallnar, þar Tilskip. frá 19da Febr. 1783 er öll úr gildi, (sjá Cancbr. 18da Maji 1799), sídan útkomu Tilskip. frá 4da Jan. 1799, sem aftók trúlofanir. Eins misti Kóngsbr. frá 25ta Nóv. 1791 Lagakrapt, sem þar hjá aldrei hafdi hér neinn, med útkomu Placats frá 12ta Júnii 1812, sem aftók einfaldra Legorda bætur, og med útkomu Konúngs Urskurdar frá 24da Jan. 1798, auglýsts med Canc. Umburdarbr. frá 3ja Febr, s. á., áhrærandi, ad öll ákjæra burtfalla skuli gégn Legords-sekum, sem brotlegir verda saman, en giptast eptirá. Auk þess, ad þetta almenna Köngsbréf aldrei mátti álltast hér umbreytt hafa Stóradóms bodordi, sem Íslands sérlega Lögmáli um Legord, ad þeir, sem brotlegir yrdu saman jafnvel ad 5ta fridlul si, vid hverju hann lagdi húdlát, yrdu siknir sakar ef giptust. Hvar börn og álitast, sem ekta börn, þó gétin sén fyrir hjónaband, sem æ er, þegar Foreldrar þeirra eptirá giptast, (sjá NL. 5—2—32. 33, Arna Biskups Kristinn-rétt, Kap. XVI. og Jónsbókar Erfdat. I. Erfd), er hardt ad sekta um ofstímanlega samsængur eda legord.

§. 13.

§. 13.

Samt er einúngis eitt tilfelli ad undantaka, í hverju menn enn þá straffast fyrir oftlmanlega samsængun vid konur sínar, nefnil.; Prestar, jafnvel hér á landi, eptir NL. 2—11—13 med missir síns kalls. Í hverju tilliti og vid alla oftlmanlega samlegu hjóna, verdur samt athugandi, ad hún engum til sekta mest fyrir samleguna eina, nema barnegétnadur fyrir tíman sanni hennar saknæmi. Þetta má ráda 1.) af herum ordum Stóradóms um fridlulísti, sem hann ecki metur égiptum til sekta, nema börn gétin verdi. Því tekur Stóridómur undir eins og hann sektar fridlulísis-brot í 1ta, 2ru, 3ja, 4da og 5ta sinni, útþryckilega til fyrstu, adra, þridju, fjórdu og fimtu barneign. 2.) Af álíkri áqvörduu um sama í D. og NL. 6—13—1, 5-7, og 3.) Kóngsbréfi frá 30ta Nóv. 1759, sem útþryckilega áskilur barnegétnad sé Legords sekt ad meta áfallna, og bannar annars lögsókn fyrir lausáng, hvar lög ecki útþryckilega þessa sekti. Því verdur oftimanleg samsængan hjóna enn sídur ödruvísi saknæm. Eg sagdi hana máské Prestum hér á landi enn þá saknæma, en set því má ské hér vid, ad 1.) hardt sýnist nú enn þá ad straffa þá eina med kallsmissir fyrir heldur snemma samlegu med konu sinni, sem hún engum ödrum nú er framar saknæm ordin, og var jafnvel aldrei hér á landi eptir tilfærdum laga ástædum í §. 12. 2.) Þess

vegna: ad NL. 2. B. og þeßi 2—11—13 alds rei er hèr lögleidd, nè sá Kristjáns IV Recess frá 1643, úr hverjum sú laga-grein tekin er; ecki heldur þad Kóngsbr frá 9da Maji 1738, sem ítrekar þetta straff, eins og artikuli sá þad úttryckilega tiltekur, einúngis fyrir Presta, og er þad því ecki heimfærandi til annara Geistlegra, svo sem Skólakénnenda, Djákna, Stúdenta, etc. þó oft manleg samsængan enn ætti ad verda Prestum vorum saknæm, sem vrdist hardt og vafasamt, en um Legords-brot er fyrir þá öllu ödru máli ad gégna. Samt mundi greindra Lakna álit um útlit barnsins til samburdar vid medgaungu-tíman n útvegast þurfa, svo sèist hvert sú samlega réttilega metast kynni oftimanleg, ádur enn nockurr fyrir h na sekast egi hèr framar frá Embætti, sem er þýngsta straff og, (eptir Tilskip frá 28da Dec. 1792 §. 4.), fullt ígyldi vid 2gja ára Tukthúss erfidi.

§. 14.

Þegar ógipt persóna eignast barn, kallast þad Lausaleiks edur fridlulífis brot. Í §. 13 e n tilnef d þau leg, sem berlega sýna, ad barns gétnad þurfi til þess, ad samlega ógiptrar persónu med annari metast egi, sem legords- edur lausaleiks-brot; en samlega hennar, jafnvel fullsannud med vitnum, og þó med annari giptri væri, reiknast ecki þeirri ógiptu ódruvísi til legords-sektar, heldur sem ósæk-

næmari lausúng, hvar um Köngsbr. frá 30ta Nóv. 1759 bannar Yfirvöldum alla ransókn í Embættis nafni, og ákjærur, edur um framda lausúng med ödrum án barneignar. Þvíllík í frammi hefd med frekum losta edur og fleiri barneignum, ætlast NL. til í 6—13—3 ad temjist med adskilnadi sekra og burtvísun þeirra hvers frá ödru, til annara sókna og sveita, eins og hjá oss tilskip. frá 3ja Júnii 1746 í §. 12. og Cancbr. frá 13da Oct. 1787, undir 8rdla sektir Sýslumanns fyrir forsómun þar vid í 1ta, en ákjæru til Embættis tjóns í ödru sinni. Vanræki Prestur ad tilkynna Sýslumanni þvíllík afbrot, fellist hann til bóta eptir efnum hans. Stóridómur vyrdist þarámót krefja þar til þráláta sambúd og ítrekadar barneignir semu legords sekra, kallar þad þó opinbert fridlulíst, en sektar þad þó ad eins eptir barneigna tölu, sem annann lausaleik.

Lausaleiks-brot skiptast: *I.* í einföld, vid hverjum almenn laga-sekt liggur; og *II.* í stórsaknæm, sem leg sérlega sekta. Hér skal nú:

*I.*) Einfaldra Lausaleiks brota sekt nefna.

Vid Lausaleiks-broti í 1ta sinni lagdi Stóridómur 18 álna sekt; í ödru sinni 36 álna edur 6 aura; í 3ja sinni 12 aura; í 4da sinni 24 aura, edur 3gja marka sekt, allt þetta fyrir sérhvern þannig brotlegann, og hafdi sami ásamt fyrirgjört fjórdúngs vist í 4da sinni, þad er: vard útlægur úr Landsfjórdúngi; í 5ta sinni vardadi leg-

ords-brotid húdláti, nema þar brotlegu persónur giptust saman. Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 umbreytti med §. 10. straffinu fyrir 4da lausaleiks-brot svo, ad bætur fellu burt, en baud, sem fyrri, ad dæma fyrir þad til fjórdúngs útlegdar. Cancelliid fann samt seinna meir hennar straff, eins litid og Sýslu-útlegdar fyrir hórdóm ad vera samqvæmt þessara afbrota edli eda gódra straff-laga grundvallar ástædum, líklega vegna þess, ad slík útlegd allopt er sumum alls ekkert straff, heldur mörgum hagur, t. d.: mædrum 4ra bekta barna ad sendast burt frá heim, þar med losast vid þeirra framfæris þúnga- og armædu, en fá þar med betri hentugleika til ad halda þar fram sömu lausúng í ödrum landsfjórdúngi; hreppum þar á mót margföld og överdskuldud þýngsli med þessara burtflæmingu verda á herdar lögd, vid framfæri eptirskilinna födur- eda módur-lausra munadarleysingja þeirra; ekki ad nefna óhöfnudinn í ad senda frá sér í adra Landsfjórdúnga og Ömt úrkasts afhrak annara Amta, hverjum hin þar hjá enga skyldu vidkannast þurftu vidtöku ad veita, og yfir hverjum annarleg Yfirvöld eda Dómstólar ekkert höfdu ad segja. Hátt-nefnt Cancellí baud þessvegna Dómurum, þann 4da Nóv. 1780 (sjá Løgþb. 1781, bls. 17.), í öllum tilfellum, hvar lög bydu ad dæma seka til Sýslu- eda Fjórdúngs útlegdar, ad dæma

hverjatveggja samqvæmt Kóngsbréfi frá 15da Martz 1780, til ad afplána hana med 2gja til 10 rdla bötum (eptir åsigkomulagi), hverjar Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, í §. 11 og 12, nú seinast lagdi allar til Júslitz-kassans, og er sú rådstafan enn aptur stadfest åsamt þessu Kóngsbrési med nýu, frá 3ja Maji 1816 í §. 4.

Húdláts straffi fyrir 5ta lausaleiks-brot eptir Stóradómi, breytti Tilsk. frá 3ja Júnii 1746 í Tukthúss straff, ótiltekid hversu lengi, hvad Dómaranum því ætlad er, eptir málavöxtum ad áqvarda, en nú í þessa stad vandarhagga refsingu, samqvæmt Kóngsbrési frá 3ja Maji 1816 §. 2., nemi straffid ecki meiru enn 3gja åra Tukthús vinnu; annars vidheldst þessi, eptir §. 3, ef lengri er, og sendast sakamenn þå út til Kaupmannahafnar, þar í Betrunarhús.

Nú má samt verda hér út af spurning: Er sekum í 5ta legords-broti nú fyrirmunad ad afplána þetta Tukthúss straff í hýdingar stad, eptir Stóradomi, med giptingu vid þá persónu sem fallid var med, eins og hann lenfir? Eg meina því fjærri fara; því þó undarlegt sýnist, ad gipting og húdlát, eda seinna meir Tukthús straff leggist ad jøfnu fyrir 5ta brot til straffs, og gipting sjaldnast megi straff heita, er audfundinn elldri og nýrri laga tilgångur med því ad láta verdskuldud lag straff -fyllnast med giptingu, sá: ad frama þar med hjónaband, eyda hneixli og umbreyta þar med afbroti í mid-

ur eda litid saknæmt, og hér, í tilnefndu dæmi, 5ta brots sekt í oftímanlegrar samlegu hjóna, hjá oss optarst ósaknæma, eptir ádursegdu, §. 12, bls. 29, hvar í nidurlagi hans nockur løg talin eru, sem votta Stóradóms bodord enn gyldandi í þessu efni. Sømu ástædum Løggjafara vorra lýsa D. og N. Løg í 6—13—2, 10, 16, 17, og ad hjónabønd eptirá afpláua megi ½ búslódar straff og jafnvel lífs og æruleysis, eda heidurlegrar heimanfylgju útláta, eptir Tilsk. frá 5ta Martz 1734, §. 6. (sjá §. 22, 23). Ad Yfirvøld samt leggi þeim brotlegu tímabil fyrir, innan hvers hjónaband þeirra sé fullgjørt, egi sekt burt ad falla, er sanngjarnt, svo ad ecki gabbi þeir hin med fyrirbornum hjónabands ásetníngi. Cancelliid tiltók 3 mánudi, med Urskurdi í einstøku tilfelli, þann 22ann Sept. 1798, en Køngsbr. frá 17da Jan. 1800, einn inn í einstøku, 2 mánudi. Hjá oss vyrdist hæfilegast, ad Yfirvøld, eptir málavøxtum, ákvardi tímann í hvert sinn, þó aldrei skémri enn fyrr segir.

§. 15.

Um straff frillulífis-brota mega nú enn verda 2 markverdar spurníngar: 1.) Ver nú ecki yfir høfud hér ad straffa øll lausaleiks-brot eptir Danmerkur gyldandi løgum, ad bodi Køngsbrefsins frá 25ta Júlii 1808, §. 10? og 2.) Hversu straffast þau brot sanngjarnlegast

í 5ta sinni, fyrst Tukthúss vinnu tíminn, eptir Tilskip. frá 3ja Júnii 1746, §. 10, er ótiltekinn, og hversu, verdi þau enn optar framin?

Hvad fyrri spurningunna áhrærir, verdur 10di §. Kóngsbrs. frá 25ta Júlii 1808, eckí ødruvísi skilinn, enn ad hér á landi, eins og í Danmørku og Norvegi þá fyrir laungu fyrirskipad var, framvegis gjørast skyldi 'afmidlan allra lausaleiks sjárbóta, allt ad 24 ß. minnst, hver þángad til hér øldúngis ecki løgskipud var; en sakafallid ødrum lént fyrir árlegt afgjald; úr því vard þad, eptir §. 4, lagt til Sýslanna Sakafalls kassa. Legords sektin átti því ad áqvardast eptir afmidlun í øllum tilfellum, en hana aftók seinna, og allar lausaleiks sektir, Plakat frá 12ta Júnii 1812. Hitt fær þar á mót enganveginn stadist, ad bótanna uppbæd og þeirra streff hér verda skyldu jøfn þeim, sem D. og N. Løg fyrir legord tiltaka:

1.) Vegna þess, ad allur andi og tilgángur þessa Kóngsbrs. er augljós sá, ad milda en ecki herda streff margra eldri laga, bædi fyrir þjófnad og annad, hvad §§. 5, 7, 8, 9, 10, 11, 12 og 13 berlega sýna.

2.) Þegar þess § 12ti mildar hórdóms straff í 2ru sinni svo, ad húdlát eptir Stóradómi fyrir þad burtfell, en bætur til Sakafalls-kassans urdu einir 18 rbdlr og frá 2 til 10 rbdla til Júslitzkassans, lángt nedir D og N. Laga (í 6—13—24, 25) tiltekinu, sem felldi

hvern svo sekann til ítrustu fjársekta edur $\frac{1}{10}$ búslódar og til útlegdar úr landi, auk 24 rdla legords sekta fyrir karlmasi, en helsingi minni fyrir konu, samqvæmt Tilskip. frá 6ta Decbr. 1743, §. 22, og Kóngsbr. frá 11a Febr. 1799, er audsjed, ad § 10. ecki hafi viljad hér sekta lausaleiks brot i 1ta sinni, eptir D. og NLaga 6—13—1 med 12 rdla bótum, þegar miklu saknæmara afbrot, hórdómur i 1ta sinni hér sektadist, eptir §. 11, med einum 9 rdlm og 2ur til 10 rdla fyrir Sýsluvist, og ecki viljad hér láta straffa lausaleik karlmanna i 3ja sinni, þó med 2ur ádur ógølludum meyum framinn væri, eptir 6—13—8, med lífs edur ødru hærsta straffi auk 12 rdla bóta, en qvennmanna i 3ja sinni, þó hvert brot sé med ymsum framid, eptir hér óþecktum Tilskipunum frá 19da Martii 1751 eda 26ta Apr. 1755, med 6 til 8 ára Tukthúsi, sem Cancbr. frá 19da Okt. 1799 þó bannar þeim framar ad áleggja, eda þar um løgsókn ad høfda, en tjáir Konúng sekta slíkt med fangelsi um tíma, vid vatns og brauds vidurværi, fyrst hann med §. 13. setti 2gja ára Tukthúss vinnu bótalaust fyrir hórdóm i 3ja sinni, hvert sem med ymislegum eda sømu persónu framinn er; því þad væri ad herda lausaleiks-sekt lángt yfir hórdóms, þvert á móti edli þessara afbrota, náttúru-løgunum sjálfum, vorum eldri og fleiri landa løgum. Auk þessa lýsir Kóngsbr. frá 31ta Dec. 1799 ber-

lega, að vorir Løggjafarar ecki vildu í neinu herða hèr eldri legorðs-strøff.

Þar nú Placatið frá 12ta Júníi 1812 hefir aftekið lausaleiks sèbætur og øll afmiðlan þeirra þar með burtfallin er, þá er auðvitað, að §. 10. Kóngsbrèfs frá 25ta Júlii 1808 þar með er hjá oss úr gyldi genginn. Þessari meiníngu samqvæmt eru og fallnir hmsir Dómar hèr í landi, nú seinast 2 við þann konúnglega Landsyfirrètt þann 4ða Sept. 1820, (sjá Klps. 1821 No. 5), og 2ann Apr. 1821, (hvert og auglýsist í þessa árs Klpósti), hvar með undir eins vidtekið er: að þó Plac. frá 12ta Júníi 1812 hafi eptirgefið lausaleiks fè-bætur, sè nú ecki NLa. straff fyrir ítrekaðann lausaleik hèr í neinu gyldandi, heldur enn þá íslendskra laga, að øðru enn bótanna útsvari, einkum gyldi Tilskip. frá 3ja Júníi 1746, að því leiti henn-ar stræffum ecki er með seinni til Islands út-gèfnum løgum breytt, eins og §. 14. frásklrir.

Síðari spurníngunni viðvíkjandi: um hæfilegast straff lausaleiks í 5ta sinni, og opt-ar framins? hvði máské helzt aðgætandi við á-hverðun þess straffs, hvert sú seka persóna fall-ið hefir með sømu persónu optar, eður hmis-legum í hvert sinn, og í síðara tilfellinu, hvert karlmaður með øður heiðvyrðum meyum; því — að falla optar með sømu persónu, vott-ar breiskleika einn við ysirbugun fastheldinnar ástar til einnrar vissrar persónu, og sýnist þá

taka ega minna straffi, enn þess, sem með lausáng við ýmislega sannar þessarar meiri freksju. Í fyrra tilfellinu og hvar eckert sérlega áfellandi mætir, vyrðist litandi til þess jafnaðar í sektum, sem Stóriðómur gjørði á milli hórdóms og lausúngar. Þar varðaði 5ta lausaleiks brot húðláti einu, en hórdómur í 2ru sinni framinn húðláti og tvøfølðum, það er: 18 rdla sektum, nú sektar Köngsbr. frá 25ta Júlii 1808 þann í §. 12. einum 18 rdlm auk 2gja til 10 rdla fyrir Sýslu-víst — alls 20 til 28 rdla án húðláts. — Eptir Stóradómi átti samt 5ta brot í lausaleik minna að metast; en Tilsk. frá 3ja Júnii 1746 býður þó í §. 10. að það varða skuli Tukthúsi, og Köngsbr. frá 3ja Maji 1816 §. 2., að þetta straff nú breytast skuli í vandarhøgg, fært 10, og vyrðist þessi því hæfileguft tala þeirra fyrir lausaleik í 5ta sinni, bæði eptir eðli þessa brots, hvar engar sérlega skérpandi sekta ástæður finnast, og samqvæmast niðurlagi §. 7, í Köngsbr. frá 25ta Júlii 1808; en hvar þessar áukast, sýnist vandarhagga tølunni nockuð sjelga ega. Tal-an 10 vyrðist því framar í almennum tilfell-um hæfa, sem hórdómur 3ja sinni nú varðar 2gja ára Tukthúsi, en Köngsbr. frá 3ja Maji 1816 leggur í §. 2. það í Dómara vald, eptir málavextum að skamta vandarhagga tølu fyrir øll afbrot, sem vinna til skémra Tukthúss-

erfið-

ersidis enn 3gja åra, þó svo, ad þar aldrei verdi færri enn 10.

Hversu enn fleiri lausaleiks-brot sektast egi er ecki í legum åqvardad; en — med sanngjarnri fjölgun vandarhagga mundi þeim hæfa ad refsa, þó ecki strax störkostlega aukinni, syrst Hæsti-réttur gaf oss dæmid med 4da hördóms straffi, um hvert engin saka-leg heldur gëfin eru, og lët jafnvel þessa svo störum saknæmara glæps iðrekun fram yfir þá, sem leg gjøra råd fyrir, ecki vinna til meiri straffs-auka, enn, sem svarar ½ edur 1 års Tukthúsi, i vandarhøggum, (sjá § 10.); ef nú þessara tala vid 6ta lausaleiks brot yrdi 15, í stad þeirra 10, sem vid 5ta brot áleggjast, en vid 7da 20, vid 8da 30, mundi måske þetta verda hid hardasta áleggjandi straff, þó svo nockrar ådur umgëtnar herdandi åstædur fyrirkjæmu vid lausaleiks-brot, þar 30 vandarhøgg gånga jafnt 2gja åra Tukthúsi sem er hæsta alls einfalds þjófnadar straff í 1ta sinni, eptir Köngsbr. frå 25ta Júlii 1808, §. 7, hvar ecki er Sauda-þjófnad ad sekta. Fyrir fleirum brotum tel eg óþarfa råd ad gjøra, hvar Yfirvøld gå skyldu sinnar strax vid 4da brot ad dæma seka til straffs, og sídan vid sërhvert; líka bodords Tilskip. frå 3ja Júnii 1746 í §. 12, ad stía legords-sekum sundur í tíma.

Fullhardann, ef ecki ofhardann, meina eg samt þenna straffs auka, sé litid til, sem ådur

er nefnt, hverſu lítinn Hæſtiréttur álagdi fyr⸗ ir 4da framyfir 3ja hórdóms⸗brot (ſjá §. 10. bls. 21.), ſem þó er miklu ſkadnæmari glæp⸗ ur; líka til Cancelli Urſkurda frá 26ta April 1800 og 20ta Nóv. 1802, ad 3 lauſaleiks⸗ brot, ſé ecki hvert med 3ur hmislegum per⸗ ſónum framid, ecki beri til ſekta ad meta, meir enn 1ta brot, og Kóngsbr. frá 14da Nóvbr. 1800 ſem lét 4da legords⸗brot varda 8 daga fángelſi vid vatn og braud, og eins 3dja brot giftrar konu, frá hverri madur hennar farinn var fyrir vart 3ur árum, og ſé þar hjá litid til: ad hvert hórdóms brot i Danmørku álitſt þó i viſſann máta innibinda lauſa⸗legords brot, ſektaſt því þar, eptir Tilſk. frá 6ta Dec. 1743, §. 22. og Kóngsbr. frá 1ta Febr. 1799, med tvennum legords bótum auk reglulegs hórdóms ſtraffs; ſamt dæmdi Hæſtiréttur þ. 4da Júnii árid 1803 J. Sn. fyrir 4 hór⸗ dóms⸗brot, ádur ódæmd, med 4 ádur vel⸗ ryktudum ſtúlkum, og fyrir 5ta i fridlulíſi, øll i einu, ſem fyrir 1ta hórdóms⸗brot, eins og Landsyfirétturinn gjørt hafdi, þann 11ta Aug. 1802; og aptur dæmdi bædi Landsyfir⸗ réttur þann 3ja Jan. 1820 P. S. ádur einu⸗ ſinni dæmdann i hórdómi ſekann, en þá ákjærd⸗ ann um 2 hórdóms brot á ný og 1 fridlulífis, þó ecki meir enn til hórdóms ſektar fyrir øll 3 i øδru ſinni, og ſtadfeſti Hæſti⸗réttur þann Dóm þ. 10da Maji 1820 (ſjá Klp. 1820, bls.

265—66). Sá Dómur vottar og berlega ádurfagt blí 36—37, ad D. og NL ga straff fyrir lausaleik, er ecki hjá osf innleidt med §. 10. Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, heldur, eins og þar nefnt Cancellíbr. frá 19da Okt. 1799, ad mildari andi um hæfilegast straff legords-mála, rædur vorri Rikisstjórn til vægari sektunar, þeirra edli framar sambodinnar.

§. 16.

Eptir reglunni: ad almenn lög Rikisins ecki uppheffji sérleg lög gefin einstöku héradi, þess vissri Stett eda Stiptun, kynnu einhverjir fara því fram, ad Plac. frá 12ta Júnii 1812 ecki aftaki legords-sektir hjá oss eptir Stóradómi, þó fyrir einföld legords brot í Danmørku uppgéfin séu En — bædi er sama ástæda og orsök til þeirrar uppgjafar eins hjá oss og í Danmørku, sem Placatid sjálft bendir til, nefnilega: Løggjafarans vilji heldur ad sjá í gégnum fingur vid og fyrirgéfa þenna náttúrlega breiskleika, enn ad svipta foreldri bekta barna til legords-bóta útsvars efnum frá framfæri þeirra barna, eda um leid straffa í enna seku stad, saklausar sveitir med því, ad létta þessa framfæris byrdi af foreldranna herdum, en leggja hana aptur á sveitanna. Þess vegna er ecki einúngis trúlegt, heldur víst, ad Løggjafarinn, sem um aldir hefir ætíd vægara sektad legords brot hér á landi, enn í Danmørku, (samanber og

Kóngsbr. frá 31ta Dec. 1799). vilji að hans íslendskju þegnar njóti sömu vægdar, sem aðrir hans í þessari urpgjöf; svo hafa líka öll vor Yfirvöld og Dómstólar hér tekið og útlagt vilja hans, og síðan haldið sér áminnst Placat frá 12ta Jún. 1812 fyrir lög, en Hæstiréttur lokfins nú staðfest þá útleggíngu, með því, að sekta alls ekkert P. Ss fiidluliſis brot ofan á 3 undangengin hórdóms-brot, með ávísudum (bls. 14), Dómi þann 10da Maji 1820

En — mun þar af réttilega leiðast sú ályktan, sem allt ofmargir of grunnhygnum Almúga fella, að Lausaleiks brot öll séu nú orðin saklaus og taki ecki framar laga-straffi? eður að lög nú segi það sektalaust, sem Kristinndómur og góður siða-lærdómur dæmir synd, afbrot og óreglu, varar því skörulega við og lýsir sektum fyrir? er nú lausúng hætt að vera straffsverð, sem áður var álitin hneixlanleg, straffsverð óregla, ósiðsemi og siða og vyrðíngar spillir fyrir aðra og á stundum annara gæfu spillir? Því fer fjærri. Einúngis áleit Löggjafarinn framar sjáandi um tíma, sem mælt, í gégnum fíngur við fyrstu einföld lausúngar-brot, með því, að gefa sekum bæturnar upp, og halda þessum þar á mót hárdt til að fylla þá foreldrum af sjálfri náttúrunni uppálögðu uppfósturs skyldu; alltéins þeirra óekta barna, heldur enn að svipta þá til bóta einna fyrir lausúng, framfæris meðulum og straffa

sveitir med forstödulausra ó́ekta barna forsorgunar þúnga, þá forelldra esni vórn til málskostnadar til áfelliódóma og bóta þrotin.

Bædi í elldri og nýrri tídum hefir vorum Løggjøfurum og þókt vidurlita mikid, ad taka hardt á einföldum legords-brotum, líklega vegna þess, ad þau, sem mælt í §. 2., lýsa ecki, sem summur afbrot flest, illum ásetningi ad skada adra, heldur misbresti í ad gæta skyldna vid sjálfa sig og halda, annars saklausum, náttúru tilhneigingum í taumi; lýsa þó helzt breiskleika hrøsun, en engri mannvonsku. NL. 1—22—1 ætladi því til, ad eins þessar laga-sektir, sem fleiri, afmidludust eda læckudust á þingum, og ad þingsvitni tækjust þar um. Tilskip. frá 19da Aug. 1724 og 21ta Aug. 1725 budu álíkt med berum ordum um legords-bætur, en hngri frá 13da Júnii 1771 aftók allar lausaleiks-sektir, af líkri orsøk, sem Plac. frá 12ta Júnii 1812 nú eptirgaf bæturnar. Þá orsøk itrekadi ad sønnu Plac. frá 27da Febr. 1772, en aftók þó straffleysu bod fyrrnefndrar Tilskipunar frá 1771 og bar fyrir: „ad þetta hafi orsakad hneixli og gefid tilefni til sidaspillirs" d). Engu ad sídur ól Rikis-stjórnin

d) Samt hefir einhverr sá frægasti Løgvitríngur — Hæstarettar Justitiarius Christján Colbjørnsen — sýnt: ad sú geti ecki verid hafa orsøk til hennar apturkøllunar, þar ed þá engin laga røksemd edur barnsfæding gat vitnad um gjetinog

seinna meir enn fyrir: ad þesshättar brot yrdu vægt eda litid sektud. Cancellí-Umburdarbréf frá 21ta Des. 1793 bannadi ad setja nockurn fyrir legord í fángelsí vid vatns og brauds vidurværi, sem Tilskip. frá 8da Júnii 1767 fyriskipadi í opinberra skrifta stad; baud ad skkra Cancellíi frá þeim brotum, en það gaf út Qvittunarbréf vid það straff, sumum mót litlu, en fátækum mót engu lausnargjaldi.

Hér á landi létu Köngsbr. frá 4da Apr. 1772 og 16da Febr. 1787 í aflausnar stad koma 32 ß. pockabót til Tukthússins af legords sekum karlmanni, en 16 ß. af konu, uns Köngsbr. frá 25ta Júlii 1808 aftók hana í §. 11. oldíngis, allteins fyrir hördóm; en — allstadar aftók allt straff í opinberra skrifta stad Tilskipan frá 23ja Maji 1800 í §. 3., sem þar nefnir legord yfirsjónir, en ecki med afbrota (Sakamála) nafni.

Cancellí-skipan þann 12ta Júlii 1794 leyfdi legords-bóta lækkun, þá fatækir yrdu þeirra sekir, allt ad 24 ß. — mun þó fátækt engum heimila afbrot ad ósekju ødrum framar — því samqvæm vóru nú Umburdarbréf þess um bædi Rikin frá 11ta Apr. 1795 og 8da Sept. 1798.

fædd börn frá 13da Júnii 1771 til 27da Febr. 1772, ad fullum medgaungu tíma (sjá Jurid. Archiv. No 19. bls. 10). Sú seinni Tilskipan er því talin øllu líklegri afleiding Stjórnarbiltínga í Danmørku, þann 17da Jan. 1772.

Það síðara bannaði: að leggja nockurt líkamlegt straff á legorðsseka fyrir stort sektagjalds. Lengst máttu samt legorðs-sekir hér á landi — á hverjum øll elldri lög tóku þó vægara með þeirra brota stræff — þyngri sektabótum sæta; uns Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808 í §. 10. band lækkun eður afmiðlun þessara að gjørast í øllum tilfellum, það er: hvert sem ríkur eða fátækur ætti hlut að. Loksins uppgaf lausaleiks bæturnar Plac. frá 12ta Júnii 1812 allstaðar e). Síðan verða nú 3 fyrstu

e) Að Løggjafarinn annars ecki unni hørku við þá, sem fellðir eru til bóta, fyrir hver brot, sem er, eða fyrir vantandi tilløg fátækra með óekta børnum, sem að løgum afplánast ega (svo sem eptir Tilskipan frá 6ta Dec 1743, §. 14, með opinberri vinnu, erlendis í Festingum og Tukthúsum, sjá og Tilsk. frá 10da Dec. 1790), vottar nú síðast forboð hans þann 24da Apr. 1816, auglýst með Cancelli-Umgángsbr. frá 14da Maji s. á. móti framqvæmd þessa straffs, uns honum se af Cancelliinu frá málavøxtum skírt, hvað samt seinna Cancelli-Umgángsbr. frá 19da Okt. s. á., segir þá fyrst viðþurfa, þegar afplánan bótanna með vinnu, eptir Tilsk. frá 6ta Dec. 1743, § 14, taka skal lengra opinberu erfiði á fyrrnefndum straffunarstøðum enn í 6 mánuði, því — ef skemra nemur, ætlast það til, að vantandi bóta og tillagna afplánan gjørist samqvæmt Tilskip. frá 1sta Júnii 1816, §. 5, sem lætur 5 daga fángelsi við vatns og brauðs viðurværi koma í stað hvers mánaðar opinberrar vinnu,og býður síðast nefnt Canc.br.,að eins dags þvílíkt fángelsi-afplána skuli hvern 1 rbdl

einfalds lausaleiks-brot sektalaus, en hvar Réttvísin eckert hefir ad sekta, urdu Þinghöld og Dómar um þesshattar brot óþörf, þvi helds

filsurs í skortandi bótum og eins tillaga gjaldi med óekta-börnum. En þar hverki þessi Tilskipan frá 12ta Júnii 1816 er hjá oss enn þá gyldandi, eda straff med fángelsi vid vatns og brauds viðurværi hjer á landi álitid hæfilegt eda leyfilegt, eptir Kóngsbrefi frá 25ta Júlii 1808, §. 9, sem á ný er eins í þessu tilliti stadfest med serlegu Kóngsbrefi fyrir Island frá 3ja Maji 1816, §. 4. — nema hvar Konúngur med einstökn bodi sínu og í einstöku tilfelli þad fyrirskipar, sjá t. d. Kóngsbr. 19da Maji 1819, í Klp. 1820, bls. 17 — ber hjer á landi bætur og vantandi tillög til óekta barna forsorgunar, og frástilinna qvenna ad bordi og sæng, eptir §. 9. Kóngsbr. fr9 25ta Júlii 1808, ad afplána (sjá nótu til bls. 138 —40 í Sætta Handqveri minu). Sama auda lýsir Cancellibr. frá 2rum Jan. 1796 (til Amtm. i Daum.), sem í því tilfelli, ad legordssekur ecki ætti neitt fyrir legords bótum, ættu þessar ad vinnast af, samqvæmt Tilsk. frá 6ta Dec. 1743, en, þó búslód eda allar egur vanti, bæri ecki ad dæma líkhamlegt straff í stad forbrotunnar búslódar.

Þeir, sem nú halda kynnu legords-brota ströff of væg ordin, ættu ad yfirvega: 1.) þessara brota edli, undirrót og tilgáng, sem eptir ádursögdu, bls. 6, eru optarst sakminni mörgum ödrum, sem afbrot helzt mót egin skyldum vid sjálfa sig, hver Stjórninni í seinni lög hæfir og þá samt ætíd vægt ad straffa. 2) Þó ad annara heill ásetningslaust med þeim spillast kunni

ur, sem Løggjafarinn með Kóngsbr. frá 3ja Maji 1816 í §. 6. lét í ljósi vilja sinn að hlífa saknæmum til fastsettra bóta að løgum, við út-

og þyngsli aukast sveitum á stundum, verður vandhæfi fyrir Dómarann, að sekta aðra brotlegu persónuna fyrir afvegaleiðslu hinnar, sem hún fellur með, þar audsjed er af samburði vorra sakalaga um. legorðs-brot, bæði eptir Stóradómi, Tilsk. frá 3ja Júnii 1746, hverrar §. 13. lýsir því berlegast, líka Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, §. 10—13, við anda og boðorð Tilsk. frá 5ta Mártz 1734, hjer løgleiddrar með Kóngsbr. frá 14da Júnii 1740, að Løggjafarinn metur báðar þær brotlegu persónur optarstnær jafnt sakfallnar, jafn-breiskar og jafn-líklegar — allt eins konu, sem mann — til að falla og ginna hver aðra til legorðs-brota, hver ástæða og má rettlæta: að ógipt, sem fellur með giptri, er allopt ecki sekari þeirri, sem með ógiptri leggst. (samanb. þann bls. 14 tilnefnda Hæsta-rettar Dóm, frá 10da Maji 1820.) 3.) Þó þyngsli orsakast kynnu sveitum á stundum af óekta barna fjölgun um of, og eginn maka og ektabarna heill þar með spillast, má hverttveggja allteins skje með mikilli ektabarna fjölgun øreiga, lessa, svallara, óráðs- og óhófs- stór-ýfirlætis og ofdrykkju-manna, sem eptir útsvöllud — á stundum mikil — efni, varpa øllu bjargþrota hyski sínu á sveita framfæri. Er þessum þá engu ljettara nje hughægra að forsorga slíkt, enn nockur óekta børn, að því leiti foreldrar þessara ecki orka af þeim straum að standa, hvað til itrustu krapta þó af þeim krafið er og krefja ber. Mundi þó þykja ísjárverdt, fyrir mishaldnar skyldur við sjálfa sig og ætt

bragsømum Þínghalda kostnadi, og leyfdi Því: „ad einúngis í Þeßháttar tilfellum mætti løgsókn í Réttvísinnar nafni burtfalla, svo framt hinn seki gódmótlega vildi afgreida Þær med lagabodum ákvednu vissu febætur," hvert heldur fyrir legord edur ønnur afbrot tiltekin eru. Samt leyfir ecki NL. 1—22—1 og hans skarleg útskíring í nidurlagi Cancellibréfs frá 9da Marts. 1793 §. 2., heimuglega ad veita løgskipudum eda dæmdum legords eda ødrum bótum vidtøku, ecki heldur fyrir smávegis og Políti-yfirsjónir, heldur bydur Þetta ad gjøraßt fyrir settum Rétti, og hvad Þar um framfer, ad innfæra í Þíngbókina. Allt eins útløgdu NL. 1—22—1 Tilskip. frá 19da Aug. 1724 og 11ta Aug. 1725, og budu: ad øll afmidlan legords-bóta gjøraßt skyldi fyrir Rétti eda Kaupstada Rádunum.

Hvar legords-bætur beri ad láka, sýnir Konúngs Urskurdur Þann 17da Febr. 1756, nefnilega: ad Módur ber ad gjalda legordsbætur hvar hún fædir, en Fødur hvar hann á heimili, Þá barnid fædist, um hvers sam-eign Þau brotleg reynast.

D

sína, ad skjerda borgaralegt frelsi og eigna umrád rútara, svallara, óspilunar- og óhófsmanna, eda fyrir slíkt ad leggja á Þá líkhamlega refsíngu; Þeßvegna eins á lauslæta, fyrr enn í seinustu løg, Þá lausúng framúr keirir.

Með þessari eptirgjøf bóta og þínghalds kostnaðar, er samt hverugt uppgéfið, hvar annaðhvert annað straff, auk vissra fébóta er við afbrotum lagt, ellegar óvissar fébætur ept-ir Dómarans ályktun og málavøxtum, því í øllum þeim tilfellum ber um þvílikt aukastraff og þær óvissu bætur Dóm að fella, og reglu-lega legsókn að hefða til þess. Þar nú vor enn gyldandi løg, eptir áðursøgðu §. 14. bls. 32—33 leggja fjórðúngs útlegðar straff við lausa-leiks-broti í 4ða sinni, en þángað til fyrir hin fyrstu 3, vissar og fastsettar bætur einar, er þar af ljóst, að þessum fyrstu 3ur má og ber óðæmdum og ósektudum að sleppa, en vafalaust dóm til sekta að fella úr því fyrir 4ða og øll eptirfylgjandi brot, við hverjum engar vissar bætur framar lagðar eru, heldur sérlegt og opt-ast líkhamlegt straff. Eldri og Ýngri løg (sjá bls. 33), krefja og með berum orðum dóm fyrir 4ða lausaleiks-brot, allteins um lausn fjórðúngs útlegðar með 2rdla til 10rdla S. bótum, eins og eptir Kóngsbr. frá 15da Marts. 1780 um Sýslu-vistar laun með sømu bót-um (sjá og §. 8 bls. 14—17 og §. 14. bls 33). Svo sýnir Løgþingisb. fyrir 1734 Nó 12 út-þryckilega skipun Stiptamtmanns Ockfens frá 13da Apr. 1733 til Amtmanns og all-a Sýslu-manna, strax að láta dóm gánga til fjórðúngs útlegðar fyrir 4ða Lausaleiks-brot, hverrar sektar uppgjøf hann taldi ófaanlega eptir Kóngs-

brèfum nýútgengnum þar um þann 4da Apr. 1732 og 23ja Jan. 1733, sem afstíngu alla linun straffs frá henni). f).

Stadfesting þess, ad óvissar bætur ecki verdi dómlaust álagdar, og þó býdust fram ednr afgreiddust án dóms, ad slíkt er, sem ógyldt ad álíta, medan ecki fellur dómur, sem tiltekur þeirra upphæd, og ad sérhvert brot, sem þær liggja vid, á medan ber ad meta, sem ódæmt, en ný þó sídan fremjist, ecki fyrir ítrekun til hærri sektar, gáfu þeir, bls. 25—26, tilnefndu Dómar, sem mettu mörg ódæmd brot, vid hverjum lágu óvissar bætur frá 2 rbdlm til 10 rbdla S., øll sem eitt; hvad og audvitad er eptir þeim í § 8. ádur tilgreindu laga-stødum, ad undanfærslu-laust þarf um allar stórar



f) Þó eg í Sætta Handqveri minu, frá 1819, hafi á bls. 38. haldid løgsókn sleppa mega fyrir hördóm í 1ta og 2ru sinni, og þar talid vafasamt, hvert §. 10. Kóngsbr. frá 25ta Júl. 1808, hafi hier innleidt D. og NLa. straff fyrir lausaleik, svo løgsókn høfda þurfi um 3ja brot, eda hvert þetta — helzt med tilliti til Ordinanzíu frá 1582 — se hinum fyrri hier saknæmara, er eg nú, af morgum hier ad framan tøldum røksemdum, og í §. 18, þar um eldúngis genginn úr skugga, fallinn frá meiningu þeirri, og apturkalla hana því hier med, hvad eg bid þá, sem Sætta Handqverid ega, þar eptir ad **lagfæra** á þess blads. 38.

og smáar bætur, hverra upphæd lög ecki hafa fast áqvardad.

§. 17.

Sé í einu bædi fyrir hórdóm, máske ítrekadann, t. d.: í 3ja sinni eptir 2 undangengna Dóma um þau fyrri brot, og þar hjá um saknæmt lausaleiks brot, t. d.: í 4da eda 5ta sinni ad straffa legorda sekann, má verda vafi um þessa hæfilegasta straff; minni þó fyrir 3ja hórdóms-brot og 5ta lausaleiks saman, því lög vor leggja Tukthúss — nú vandarhagga — straff vid. bádum, svo í Dómarans valdi verdur þá, ad skamta tölu þeirra fyrir bædi brotin saman, eptir §. 10., bls. 20—21, §. 14, bls. 34 og §. 15, bls. 39—40; en væri nú ad dæma um 2ad hórdóms brot — vid hverju bætur einar liggja — og um 5ta fridlullsis-brot (sem ecki reiknast svo, nema sá seki ádur dæmdur sé fyrir það 4da), hvar vid nú á líkhamleg refsing í Tukthúss stad, eda um 3ja hórdóms- og 4da lausaleiks-brot saman, ser illa, eptir ádurtöldum laga-roksemdum, í §. 11, ad dæma vandarhögg fyrir 3ja hór, en fyrir 4da fridlullsis-brot undir eins Fjórdúngs-útlegdar bætur. Þessar vyrdast því víkja ega fyrir því stærra líkhamlega straffi, en þetta þó aukast um nockur vandar-högg vegna þess 4da lausaleiks-brots; allt eins fyrir 5ta fridlullsis- og 2ad hórdóms-brot, straff þess fyrra

í vandarhøggum (sjá bls. 34) að ráða fyrir, en þessi fjølga, fyrir hördóms-sektina og fébætur þess, ega burt að falla. En sé 2að hördóms-brot og 4ða lausaleiks í einu að straffa, vyrðast 18 rbdla sekt til Sakafalls-kassans, með viðbót 2gja til 10 rbdla fyrir Sýslu-vist, og eins 2gja til 10 rbdla S. fyrir Fjórðúngs-útlegð til Jústitz-kassans vel og hæfilegast saman leggjast, en þá engin líkhamleg hegníng' ásamt hafa. Þó sýnast mikilvægar laga-røksemdir allvel mega heimila Dómstólum að sleppa heldur øllum bótum, og velja þeim seka vægilega vandarhagga hegníngu (sjá bls. 39), svo sem:

1.) Örbirgð hans til að lúka þúngar fjársektir, og þó fá sig og børn sín framfært án þess, að sveitir fyrir þær bætur líði saklausar við þeirra útsvar. (samanb. Tilskip. 6ta Dec. 1743, §. 18. Pl. 12ta Jún. 1812.)
2.) Blygðunarlaus lausúngar-frekja sakamanssins með giptum eða með fleiri brotum, sem í einu koma fyrst undir ákjæru, en sem ega ekki eptir Dóma-tølu að sønnu metast, en vyrðast þó eins saknæm og brotin eru óstrøffuð mørg til, og sýnast þó sanngjarnlega mega að nockru leiti samanlögð fjølga svo legorða-tølunni, að líkhamleg refsíng, eptir laga-bókstafnum, til þeirra nái, eða þegar
3.) Ósvífni hans og mis-kynntu náttúrufari vyrðist betur hafa líkhamlegur agi

enn bætur, svo nidurlag §. 7. Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, heimili slíkann Pólití-aga, vid hvern samt engar bætur, eptir fyrrsegdu ega g.)

§. 18.

Hvert sá, sem hér á landi kreinkir 3 eda fleiri meyar, hverra ryktí ádur ógallad er, se frekara straffs sekur, enn fyrir einfaldann lausaleik, mætti þeim, sýnast vafasamt, sem lítur til NL. 6—13—8, og þar undir eins til 9da Art., sem leggur jafnvel hærri sekt vid barneign med Júr, enn þótt ádur miskynntum konum, og ad þær eins fyrir 3ja brot hardara straffast; þvi þó NL. um legord gyldi ecki hjá oss,

g) Med tillitl til þessara røksemda, dæmdi sá konúngl. ísl. Landsyfirrettur S. S. til 15 vandarhagga aga, þann 2an Apr. 1821, ádur ódæmdann, en þá fyrst løgsóktann til straffs, fyrir 2 hórdóms- og 5 lausaleiks-brot; hafdi hañ ádur (fyrir útkomu Plak. frá 12ta Júnii 1812) goldid 3 lausaleiks sektir, sídan i kyrrþey 1 hórdómssekt; en annann G. G. ádur líka ódæmdann, en þá løgsóktann um 5 lausaleiks-brot, felldi sami Landsyfirrettar Dómur til 8 rbdla sektar til Jústitzkassans, sem fyrir 4da legords-brot í Fjórdungs-útlegdar stad. Bádum var ad sønnu talid 1 lausaleiks-brot fleira til sektar, en sem burtfiellu, þar bádir litlu seinna ektudu barnsmædur sinar. (Sjá bls. 29 og 35. Konúngs Urskurd 24da Jan. 1798.)

hjóda Fridr. Konúngs II. hjá oss løgleiddu Hjóna-bands Artikular frá 1582 sama, og eru þeir ýngri enn Stóridómur; en — bædi er athug-andi: ad þeir Artikular, sem almenn Rikis-løg, aldrei hafa fyrr eda sídar af nockrum Yf-irveldum eda Dómstólum, ædri né lægri verid álitnir raskad hafa Íslands sérlegu Sakaløg-uin um Legord, nefnilega; Stóradómi, stad-festum af sama Konúngi árid 1565 fyrir Ís-land; líka veita seinni løg og Hærstaréttar Dómar þessu, hinni fyrri meiníngu gagnstæda, áliti algjørlegt medhald, þar sem Kóngsbr. frá 19da Febr. 1734 og annad frá 23ja Dec. 1735 hjóda: ad Stóridómur, sem fyrri, vera skuli Íslandi løg um legords-mál. Allir vorir Yfirréttir hafa þvi aldrei gjørt neinn sekta mun í þessu tilliti, ecki heldur Hærsti-réttur, (um hvers álit eg vísa til nidurlags §. 15, bls. 41—42); líka sýnir bls. 37, ad eptir Cancbr. frá 19da Okt. 1799, hitt hardara straff, eptir D. og NLegum, nú er, jafnvel þar, hvar þad ádur gyldti, ordid léttvægt, og verdur hin ad-greiníngin lausaleiks-brota þvi hér enn sídur af neinu verdi.

§. 19.

*II.* Stór-saknæm Legords-brot.

Eptir §. 3. bls. 7 nefnist allt holdlegt sam-rædi blódskømm, ef framfer milli svo náskyldra edur námægdra, ad samlega sé þeim í Guds

(3. Mósisb. 18 og 20 Kap.), løgum meinud; og þau brot nefndi Tilskipan Fridr. II. frá 20ta Marz 1563 gióſa ervúarvillu. Eptir Stóradómi vardar þetta brot lífinu, og er þar hjá fyrirgjørt øllu lausafé þeirra ſeku til Kongungs. Tøldust eptir honum og Arna Biskups Kristinr. kap. XX. alls 17 lidir til þessara blódskammar ſekta, nefnilega framin med: Módur, Systur, Dóttur, Sonardóttur, Dóttur-dóttur, Fødur-ømmu, Módur-ømmu, Fødur-systur, Módur systur, Bródur- eda Syst-ur-dóttur; en i Mægdum: med Stjúpmódur, Sonar-konu, Bródur-konu, Stjúpdóttur, Módur Konu og Systur Konu Manns. En Tilskipanir frá 14da Dec. 1775 og 23ja Maji 1800, telja nú ecki til blódskammar fram-ar, og sem enn verdskuldi lífsstraff ønnur leg-ords-brot, enn framin af Foreldrum, med Børnum, Stjúp-foreldrum og Stjúp-børn-um, Tengda-foreldrum og Tengda-børnum, og med Nidjum allra þessara án undantekn-ingar; og af Systkynum saman, nefnilega: ad ætt, hvert heldur hálf- eda al-systkyn eru, en ecki ad tengdum til.

Vid blódskammar-brot er adgætandi:

a.) Ad straffid er sama, hvert sem brotid er framid af giptum edur ógiptum.

b.) Ad straffid burtfellur fyrir þau, sem óvit-andi giptast í øldúngis fyrirbodna lidu, ef þau, undir eins og verda vísari um skyld-

ugleika sinn eda mægdir, sem leg eldúngis léggja lífstjón vid, halda sig strax og uppfrá því hvert frá ødru. Vor Jónsbók gjørir sjálf í Arfatøkum Kap. XIV. rád fyrir, ad kyn manns sé villt. Sama gyldir því og þá um ógiptra brot í forbodnum lidum.

c.) Ad ef svo nákomnar persónur ógiptar ega barn saman, óvitandi um þær blódtengdir, reiknast þad brot, eptir tølu þess, sem einfaldt lausaleiks-brot.

Ad Stóridómur auk líf-tjóns! karlmanna med því ad hálshøggvast, qvenna med dreckingu lætur allt lausafé sekra vera fallid undir Kongúng, eptir stadfestíngu þess Dóms frá 1565, er eitt af þeim annars fáu — og, sem þad sýnist — ástædulitlu dæmum uppá framúrkeirandi hørku enn gyldandi sakalaga vid Innbúa þessa lands, framar enn adra þegna Kongúngs, og sem med tjóni allrar búslódar, straffa saklausa erfíngja þeirra brotlegu í þessara stad. Lika má þad undarlegt vyrdast, ad þó Stóridómur se Íslands sérlega løgmál um legords-brot, skuli Tilskip. frá 14da Dec. 1775 og 23ta Maji 1800, álltast hér hafa umbreytt Stóradóms forbodnu lidum, en þó ecki Stóradóms straffi, þó sá seinni í §. 1. einúngis tiltaki lífs-straff, sem blódskammar-straff, en nefni alls engar fjársektir þar ad auki. Samt er þetta undarlegt nóg, þanninn vidtekid vid ædri Dómstóla, því sá kongl. Landsyfirrettur hefir, þ. 1ta Nóv.

1804, dæmt *J. S.* og stjúpdóttur hans *I. J d.* frá lífi, og búslódir þeirra fallnar undir Kon-úng, fyrir barneign beggja ógiptra í blódskömm saman, en Hæstiréttur stadfest aldúngis þetta straff, þ. 6ta Nóv. 1805; líka hefir Landsyfir-retturinn, þann 29da Júlii 1806, dæmt Syst-kynin *G. J. s.* og *G. J d.* fyrir blódskömm saman drýgda til sama straffs, og Hæstirétt-ur þann 25ta Apr. 1819, aldúngis stadfest þann dóm h).

h) Med Kóngsbrefi frá 10da Jan. 1806 er í fyrra dæminu J. S. og I. J. d. bædi lífs- og búslód-artjóns straffid bádum allranádugast uppgefid, enn bodid ad setja hana í Islands Tukthus um 6 mánudi, en hann á Konungs nád; átti hann samt fyrst í Tukthús ad setjast, þegar hennar straff tími þar var umlidinn, en þángad til ad gista annad vardhald. Í seinna dæminu veitti Konúngur þessum Systkynum einnin nád og baud, ad þau gista skyldu 6 mánada (líklega ad-skilid) vardhald, vid venjulegann fanga kost. Somuleidis gjet eg til: ad þeim hafi verid, sem vant er í líkum tilfellum, eptirgefnar þeirra for-brotnu búslódir, en þar hjá bodid, ad skiljast ad. (Þetta Kóngsbref frá vorinu 1819 hefi eg þó ecki nú vid hönd). Beri menn þessi merki-legu dæmi Konungs nádar í blódskammar tilfell-um vorra daga, saman vid eldri, votta þau ber-lega, hversu miklu mildari þenkingarháttur nú enn fordum um ströff Sakamanna tignar Stjórn vorra nádugu Konúnga, því Kóngsbr. frá 26ta Dec. 1746 veitti alls enga vægd J. P. og B. And. d. nefnilega: Stjúpfödur og Stjúpdóttur,

§. 20.

Minni meinbuga brot nefna menn eginlega þau legorð skyldra eda tengdra, giptra edur ógiptra, sem ad sönnu ecki meirast blódskömm, eda straffast, sem þvílik, eptir §. 19, en eru þó gagnstæd landsins gyldandi lögum, ad því leiti svo nákomnum eda nátengdum ecki er leyfilegt hjónaband saman, án sérlegs Kóngsleyfis þar til. Hver hjónabönd þetta séu, til hverra þvílíks leyfis vænta megi, lýsir seinust Tilskip. frá 23ja Maji 1800, §. 1, nefnil: med Bródurs-, Fodurbródurs- og med Módurbródurs-Eckju. Barneign med þessum eda hjónabönd med þeim, reiknast því meinbuga-brot.

Tilskip. frá 14da Dec. 1775, segir hjónaband ölldúngis fyrirbodid, auk þeirra í § 19 néfndu, sem reiknast til blódskammar: 1.) med Födur- eda Módur-systur sinni 2.) ofannefndri Bródur-konu eda Eckju, Födur- eda

sem áttu barn saman, en baud þau af lifi ad taka. Kóngsbr. frá 19da Maji 1738 hafdi þó ádur nádad Kr. B. d. á lifi, sem alleins hjell med Stjúpfödur sinum, en úrskurdad hana til búslódar missirs og Tukthúss vinnu æfilángt; en Systkynin D. S. og G. S. d. brotleg saman í blódskömm, hafdi Kóngsbr. frá 26ta Nóv. 1723 nádad svo, ad hann geck æfilángt í þrælsdóm á Brimarahólmi, en hún — falkud talin — vard æfilángt útlæg af Vestfjördum.

Móður-bróður-Ekkju, og 3.) Föður- eda Móður systur sáladrar konu sinnar, og sagdi ófáanlegt Konúngsleyfi þar til, en — nú nefnir Tilskip. frá 23ja Maji 1800, ecki hjónaband eptir No. 1. med Föður- eda Móður-systur sinni med blódskamar-brotum, sem gyldi lífs-straff framar; ecki heldur, á nafn, hvert leyfi fáist til ad ekta egin Föður- eda Móður-systur; samt rædur þegn Tilskipunar þessarar til ad gjöra sér von um leyfi af sjálfum Konúngi þar til veitt. þá umsókt verdur; en um hjónabands leyfi, eptir No. 2, med Bródur-konu, eda Föður- eda Móður-bróður-Ekkju, gefur hún von, og nú er sídan med Kóngs Urskurdum þann 12ta Okt. 1812 og 13da Jan. 1813, Cancellíinu gefinn myndugleiki til ad leyfa þessi í No. 2 nefndu hjónabønd, og eins þau, sem No. 3, tilnefnir, nefnilega: med Föður- eda Móður-systur sáladrar konu sinnar.

Þanninn þarf nú ecki leyfi ad fá til annara enn þeirra, hér næst á undan, No. 1, 2 og 3, tilnefndu hjónabanda — hin, í §. 19. töldu, eru blódskømm — en eckert leyfi þarf framar til ad ekta systur konu sinnar i), og ecki til ad

i) Hjer meinast dáinnar Konu, því barneign med Systur konu sinnar, ad henni lifandi, er ecki blódskømm, sem vardar líf-tióni, eptir Tilsk. frá 23ja Maji 1800, sem einúngis við brot milli Systkyna, ad ætt, en ecki tengdum legg-ur lífsstraff. Dæmi eru og til, ad hjónaband

ekta eptirlátinn vandalausum maka, Stjúpföður eda Stjúp-móður, sem Tilskipan frá 16da Dec. 1746 þó taldi med meinbugum, en

er af Konúngi leyft med Systur þeirrar, er ádur var fallid med, þó bádar lifdu. En þvílíkt straffast, sem minni meinbuga-brot. Ad því leiti NL. 3—18—16 er samhljóda 1ta Art. Fridr. II. Hjónabands Ordinanziu, um ómisleg hjónabands tilfelli, má og til þeirrar greinar vitna, sem gefur von um nád fyrir þessháttar brot, og bannar þá þess vegna hjónum ad skilja, nema sú saklausa persóna þess beidist. Kóngsbr. frá 1ta Dec. 1730 sýnir og, ad kona, sem átti barn med mági sínum, ad Systur hennar lifandi, slapp med útlegd úr Amtinu. Einninn baud konúnglegur Urskurdur þann 13da Maji 1791: ad madur, sem átti barn med 2ur Systrum slippi ákjærulaus, en skyldi setjast í fángelsi vid vatns og brauds vidurværi, þann í 14, en seinni barnsmódirin í 8 daga. Systirin, sem fyrri fiell, átti eckert barn í meinum med honum og vard því ecki þar um ákjærd.

Sömuleidis fritók Kóngsbr. frá 13da Júnii 1800 konu, sem giptist óljett Bródur þess, er átti barnsþúngann med henni, frá logsókn og straffi. Vottar nú ellu framar þetta enn um blódskammar-mál var talid, og allur andi vorra nýrri lagasetnínga, einkum þeirrar frá 23ja Maji 1800, í samburdi vid þær elldri, vorra tíma mildari þenkíngarhátt, um hæfilegust Sakalög, því nú meta vor gyldandi lög sumt eldúngin saklaust og ecki vidþurfa leyfis, sem ádur gyldti lífid, sem fyrir meinbuga-brot. Þar uppá tel eg nýstárlegast dæmi í Kóngsbrefi frá 2rum Apr.

Stóridómur ecki; leyfislaust hjónaband eda barneign med þeim vid No. 1, 2 og 3 nefndu

1746, sem astók alla nád fyrir G. G., sem talbist hafa blódskømm framid þá fyrir 19 árum med Systurdóttur sinni, en strauk og fór útlægur í 18 ár; sóktu þó ad þeim lidnum 29 landsins ágiætustu menn um nád fyrir hann — en forgefins — því Kristján Konúngur VI. tók ecki vægt á legords-brotum. Nú er hjónaband og barneign med Systurdóttur meinalaust og þarf ecki til hjónabands med henni leyfi, en fyrir 75 árum kostadi þetta lífid.

Eptir Kóngsbr. 18da Jan. 1737 var brot G. O. d. med Módurbródur talid blódskømm, sem varda átti lífi, þó var hún nadud med Tuktlhúss-vinnu æfilángt, en sama dag útgeck Kóngsbref, sem baud af Predikunarstólum hjer árlega ad upplesa forbodna lidu og vara vid brotum í þeim. Nú þarf ecki um giptíngaleyfi med módurbródur ad sækja (sjá bls. 61), legordsbrót med honum, er ecki meinbuga-brot, og ecki þarf framar ad lesa af Predikunarstólum, hverjir forbodnir lidir sen (sjá Nótu k bls. 63). Nú er hverjum manni leyft ad ekta Hálfeda Al-bródurs-dóttur sina, en fyrir legord med Hálfbródurdóttur var Gr. G. 1714 frá lífi dæmdur ásamt henni — þá 16 vetra — hann þó med Kóngsbr. þann 22an Okt. 1714 nádadur med æfinlegum þrældómi í járnum á Brimarahólmi — hún — úngdóms vegna — þann 16da Martz 1725 nádud med Sýslu-útlegd.

Løgþíngid hafdi dæmt O. J. útlægann úr landi, fyrir 3 barneignir med Systkynabarni sinu; en Konúngur nádadi þau bædi þann 26ta

persónum, verda því nú einúngis meinbuga-brot mót landsins løgum; en, hvert straff liggur vid þvílíkum k)?

Líti menn til D. og NLaga, einkam þeirra sídari í 6—13—13 og 3—18—9 §. 7, sem þó alls eckert laga-gyldi hér á landi hafa, ber þess-

Maji 1710 og baúd þeim ad rýma Landsfjórdúnga, en vera hvert í adskildum; nú mega Systkynabørn leyfislaust ektast.

Mægda legords-brot þar á mót í upp- og nidur-stígandi línu, t. d. þá Fadir og Sonur hafa fallid med sømu konu, þó þessi ógipt sen, varda lif-tjóni. Þanninn dæmdi sá konúnglegi Landsyfirrettur í Kaupmannahøfn þann 18da Jan. 1813 qvennmann, sem átti børn ógipt med Fødur og Syni, frá lifi. Hæstirettur stadfesti þann Dóm, en þann 5ta Apr. 1813 mildadi Konúngur hann til Tukthúss-vinnu á Konúngs náð.

k) Eg hefi hjer þess vegna tilnefnt greinilega bædi þá oldúngis fyrirbodnu lidi, í hverjum blódskømm telst hvert legords-brot og eins ønnur meinbuga-brot, sem minna straffi sæta, og í hverjum lidum bædi giptinga leyfis og vægdar má vænta, hverju Cancellíbr. frá 21ta Júnii 1794 berlega segir Tilskip. frá 14da Dec. 1775 (og enn framar gjørir þad sú ýngri frá 23ja Maji 1800) lýst hafa, og telur því óþarfa framar ad lesa hjer árlega upp af Predikunarstólum, hverjir blódskammar, og meinbuga-lidir sen, hvad Kóngsbr. frá 18da Jan. 1737 þó ádur bodid hafdi. Samt sem ádur tel eg allann almenníng vera um þad nærsta fáfródann.

um ecki saman um straffid; så fyrri tiltekur opinbert erfidi í fjarlægd um tíma og fébætur, hinn sídari fébætur einar og útlegd úr sama Amti, eins og Tilsk. frá 16da Dec. 1746. En Stóridómur, sem eginlega er vort gyldandi løgmál hér um, lætur koma næst eptir blódskamar lífsstraff í fyrnari lidum 9 marka sekt og 9 vandarhøgg; refsslugarlaust áttu Systkynabørn hrotleg saman ad gjalda 4½ mørk og skiljast ad; fyrnari 3½, en primenningar 3 merkur. Til allra þessara lida mátti þó hjónabands leyfi fyrri fá. en sektin var ádursøgd, medan løglegt Kóngsleyfi ecki var komid, hvers ecki fátæk Systkynabørn og fyrnari, heldur efnugri einir vidhurftu, eptir útkomu Kóngsbréfs frá 12ta Okt. 1764; þetta Kóngsbréf áskildi þó, ad fyrir skyldmenna giptinga leyfi skyldi þar hjá gjalda þockabót til næsta Hospítals, eptir Urskurdi Biskups, hvad og tiltekid var í þeim Leyfisbréfum Konúngs þá fyrir laungu, sem Tilskipun um vor Hospítøl frá 27da Maji 1746 § 24 bendir til, allt til þess 1809, þá Cancelliid, þann 29da Júlii, úrskurdadi, ad hún ecki framar gjaldast skyldi fyrir ønnur Leyfisbréf til hjónabands enn þau, sem Konúngur eda Cancelliid, í forbodnum lidum, veitir, en hverjir þeir eru, var hér á undan talid á bls. 59.

Seinni løg mættu ecki sekt í lidum, sem Kóngsleyfi fèckst þó til hjónabands, svo sem 2rum og 3ja (sjá N°. 6—13—13) eptir nánd ættar

eda tengda og Kongsbréfs frá 25ta Júlii 1808 §. 12. sýnir, ad Konúngur vor ecki ann líkhams-legri refsingu fyrir hórdóm í 2ru sinni ásamt bótum; má því álltaſt engu heldur ætlast til hennar fyrir þau meinbuga-brot, í hverra lidsum leyfi má fá til hjónabanda, einúngis fyrir þess skort í tíma, því sídur, sem N.L. 3—18—9 §. 7. enga álagdi, heldur bætur og útlegd úr Amti. Þesshattar útlegd á hjá oss med bótum ad afplánast (sjá bls. 33). Því vyrdist nú réttast ad sekta hér nefnd meinbuga brot, sem þessi §. tilnefnir, med hæfilegum fjársektum, máské heldur til fátækra enn Sakafalls- og Jústitzkassanna eptir málavextum og ástandi þeirra brotlegu ad Dómarans áliti, og til ad minka hneixli af þeirra lengri sambúd, um tíma ad stía þeim sefu sundur. Itrekan sama glæps vardar hærri fébótum í ødru sinni, en fyrst í 3ja sinni útlegd eptir Stóradómi.

§. 21.

Holdlegt bedlis samrædi eins kyns manna saman (Sodomia), eda manna og skynlausra skepna bestiulegar samfarir (Bestialitas), þeckja varla Sakaløg vors lands, eda þenna hrylli-lega løst, nema af Søgum einum, sem vel er1);

E

1) Sjá 3 Mós. b. 18, 23. 20, 13. 15, 16. Róm. 1. 26—27. Sjá og Njáls Søgu, Kap. 124. Reykdælu, Kap. 30.

Straff er því ecki vid honum lagt í þeim. Þó má ráda bædi af Grágás í Vígslóda Kap. CXIII. og Jónsb. Mannh. XXV., sem nefnir: „ad þyggja skömm á sjálfum sér," hverju vidbjódslegur hann hafi þókt í fyrndinni, þar sem vid brírlyrdum vid annann um þvílíka óhæfu, láu 4ra marka œruleysis bætur, og ærnar þeim til handa, sem mælt var vid, eptir 6 manna dómi, ef hinn ecki fèck med 10 vottum sannad þá hádúng. Grágás telur þann falla óheilagann, er slíkt mæli til annars. N.L. 6—13—15 sektar þvílíkt óbótamál sjálft med báli og brandi. Þad skilja húsir legspakir menn svo, ad fyrst egi höfudid af ad höggva, en sídan brenna þad og kroppinn, eins og N.L. 6—13—14 og 6—19—1 tiltaka, en veik ástæda finnst samt vera fyrir því, ad straffid ecki birja skuli og framqvæmast med báli og brandi. Ad minnsta kosti sýnast Kóngsbr. frá 28da Maji 1751. 28da Febr. 1755 og 12ta Nóv. 1757, sem fyrir bestíulegar samfarir, af nád, leyfdu bödlinum fyrst vid bálid ad kyrkja þvílíka ódádamenn, ádur enn þeim yrdi á bálid kastad, gefa til kynna, ad lagaúna reglulega straff sè, fyrir þvílíka óhæfu, ad brennast lifandi m). Sú óhæfan framin

m) Þad er merkilegt, ad í Norvegi hefir helzt — af þeim fyrr sameinndu donsku og norsku Ríkja löndum — þvílík óhæfa ordid uppvís og straffud. Um hana í Norvegi drýgda, bera hjer næst á

med skynlausri skëpnu, er venja áſamt ad drepa hana og brenna edur qvikſetja, til ad úrþyma minningu þeirrar ſmánar med henni af jordunni. Hana heimilar ad minnſta koſti Kóngsbréf frá 12ta Nóv. 1757, ſem baud ad ſkjóta og ſtrax ad grafa þá kú, ſem ſlíkt óhæfa var þá nýframin med, og er ſú venja ſamqvæm 3 Móſ. b. 20, 15-16, þó ſkynlauſa dýrid ſé ſaklauſt. Væra er þad Íslandi, ad ſaga þeſs aldrei enn ſýnt heſir neinn ſvo ſtór-brotlegann hér ordid hafa, hjá því, ſem þvílíkt ber optar vid í ødrum løndum.

§. 22.

Ad naudgun qvenna til Legords-mála taka eldri og ýngri løg hardt. Jónsb. Mh. II. Kap. gjørir hana ad óbótamáli, vid hverju útlegd lá og líftjón ens ſeka, ef úr því hittiſt í landi; þó varla af þeim gróſuſtu, med hverjum áſamt er fyrirgjørt landi og lauſum aurum. Vor Løgbók krefur þar til 2 løglég vitni, ad konan, ſem yfir naudgun klagar, ſegi ſatt; en þar þeſsi ſjaldan eru til, tekur hún ákjæru henn- ar trúlega, ef hún ſamdægris klagar yfir naudg- un ſér veittri, og ſkynſamir menn meta líkindi



undan talin 3 Kóngsbréf vitni, og ad ſami breſt- ur ſe þar enn ecki dæmalaus, ſýna Tídindi árſins 1819, ſem tjá 3 á því ári þar vera dæmda fyrir beſtiulega ſamløgun. (Sjá Rhavns Skilderie 1820, No. 84. Pag. 1343.)

þau, sem hún hefir til þessa, merkari enn þess ákiærda undanfærslu. Þó NL. bodord hér um I 6—13—18, 21 séu oss ecki gyldandi løg, verda þad samt NL. 6—13—16, 17 og 3—18—15, 1. No. 3, svo sem samhljóda hér gyldandi Sjónab. Artik. Fridriks II. i þeim efnunt, eptir hvérjum naudgan qvenna vardar lífsstraffi, þó eptir 6—13—16 því ad eins, ad konan sé ad heidurlegu edur ærlegu rykti ádur ógølluđ mey edur eckja, því se hún ádur ad lausúng kunn, eda odruvísi løgfelld, þykir naudganin sídur trúleg og hennar vyrding midur kreinkt; en þá, eptir málavextum, minna straff heldur hæfa. Samt ber nockurt tillit ad hafa til líkinda þeirra, sem NL. 6—13—18, 19 telja um framda naudgun, einkum hvert køll hennar um hjálp heyrst hafi, ef fjarlægd frá mønnum og annad ásigkomulag ecki hindra þad, eda rysiñ fatnadur eda áverki á líkhama beri vott um lidid ofríki, og konan strax, sem hún kémst í frelsi sitt, klagar þar yfir opinbert og fyrir Yfirvøldum. Séu samt líkindi nockur til, ad naudgan sé framin, þegar granskodadar verda allar kríngumstædur, en sá ákiærdi hardlega þræti fyrir hana, ber honum samqvæmt NL. 6—13—5. 6—6—15 og Tilskip. frá 5ta Martz 1734, §. 2, ad hreinsa sig med eidi frá þeim áburdi heidvyrdrar konu, en traudlega synist þad bera vegna áburdar miskynntrar, einkum ad lausúng, nema barn-

eign af hans veldum orsakist, og þá helzt um faderniđ.

Þó N.L. 6—13—18 leggi sama lífsstraff vid naudgunar ofriki, hvert sem hinn seki fǽck vilja sinn fullkomnad eda ecki, verdur samt hjá oss framar gyldandi bodord vorrar Løgbókar í Mannh. II. Kap., sem berlega undanskilur lífsstraff „þegar kona hefir sig svo med góđqvennsku fengid varid, ad hinn ákjærdi ecki framkom vilja sinum," en ætlar honum þá hæfilega refsingu adra eptir Dómi, sannprófist fullur vilji hans verid hafa til ad naudga konunni.

Hvert þvílíkt illverk annars er framid med ofrikis yfirburdum, ellegar ógnunum stórhásksa ella, hvar þessi má óumflyandi vyrdast, mun á sama standa mega í straffsins tilliti. Annars ber um slík mál vandlega ad fylgja þeirri almennu sakalaga reglu, ecki heldur fyrir þetta enn ønnur illvirki, ad fella neinn til þessa yfrid þúnga straffs, fyrr enn hann um þad sannfærdur verdur med órækum laga-røksemdum, og hvar einhverja bresta kann, en verkid þó finnst formad og naudgun reynd, en ecki fullkomnud — máské sjálfkrafa yfirgèfin — heldur ad dæma alvarlegt, enn minna straff ens seka eptir málavøxtum n).

n) Nýtt dæmi uppá lífsstraff fyrir naudgun konu, gefur Hæstarettar Dómur, fallinn 5ta Decembr-

Eptir Hjónab. Artik. Fridriks II. og þeim samqvæmum NL. 6—13—16, 17, er von um nád fyrir svo sekann í 1ta sinni, en þá ber honum, sé konan, hverri hann naudgadi, ógipt, ad ekta hana, vilji hún, frændur og giptíngarmenn þar, en ef ecki, gjalda henni sanngjarna Rádspjalla-bót eptir samkomulagi hinna. Fari þeir uppá ósanngjarnt, verdur Dómarinn úr málum ad skéra. Naudgi sami fleirum konum og ekti enga, vardar þad vægdarlaust lífi hans. Af þessu má samt ráda, ad hjónaband med einhverri þeirra enn má lífsstraff þess seka afplána eda milda, þó fleirum enn einni naudgi.

Enn verda 3 spurníngar um naudgunarsekt merkilegar: 1:) Ordinantzian frá 1582 eins og NL 6—13—15 nefnir einúngis til Meya- og Eckna naudgun; er hún þá, framin mót heidvyrdri giptri konu, midur saknæm? því mun fjarri fara, heldur laganna fulla

1820, en — fyrir yfirgefna naudgunar tilraun, þó freka, dæmdi sá konúngl. Landsyfirrettur í Kaupmannah. hann 20ta Apr. 1819 J. J. til 6 ára festíngar erfidis þar, í framnni hafda vid velrygtada stúlku, hverrar køll um hjálp vitnudust, og sem á sér bar misþyrmínga merki og ryfinn fatnad eptir þær; en — ad fullt naudgunar straff ecki álagdist honum, var vegna þess ad hann siálfur gaf frá ser þeirra tilrauna framhald, þó ecki vitnadist ad hann hefdi vilja sínum framkomid.

straff fyrir þá naudgun bera ad áleggja, því framar, sem hjónaband med slíkri fær ecki seckina afplánad, og hin þó engu minni rétt hefir, sem kona; árædid gégn henni þar hjá er enn ósvífnara; og svo vyrdist henni fyrir lidinn óskunda álíkur bóta réttur bera, sem hinum, og sá úrskurdur, sem Ordinanzian (og N.L. 3—18—15, 1. No. 3) í hennar tilliti áleggur," ad sá, sem lidur órétt egi ecki ad straffast, heldur sá, sem fremur hann", sýnir, ad hún ecki framar hinum, egi ad lída svo stórsaknæmt ofríki bótalaust; þó eg hér ecki vildi benda til nidurlags Manngh. II Kap., sem ætlar bónda þeirrar, á hverri hann stendur mann, henni þó naudgunarlaust, full manngjøld af þanninn seckum. 2) Fær kona ecki ordid naudgunar-seck vid karlmann, og hvert straff liggur þar vid? Løgin þegja þar um, en tilfellid állítst møgulegt undir vissum ysirbodunar eda ógnunar kríngumstædum, um megnann lífs- eda velferdarháska. Samt vyrdist ecki þad løgskipada naudgunar-heldur annad alvarlegt straff, eptir málavertum, þar vid hæfa. 3.) Sé naudgan framin á únglíngum, t. d.: 10 til 14 vetra ókonfirmerudum, eda hálfvitum? sýnist sama straff videga, sé ofríki til hennar beitt, en annars straff eptir málavøxtum o).

o) Sem dæmi uppá sumt hjer framantalid nefni eg: 1.) Dóm ens konúngl. Landsyfirrettar í Rhøsn,

§. 23.

Náſkyldt naudgun qvenna telſt Qvenna-rán edur ódædi þad, 1.) ad taka burt Eig-inkonur, Frændkonur eda Dætur manna

---

fallinn 16da Sept. 1806, med hverjum P. J. M. er dæmdur til 6 ára Raſphúſs erfidis, fyrir reynda naudgun 8ta vetra ſtúlkubarns, og fyrir med þeirri tilraun ad hafa giørt þad franzóſs-ſjúkt af ſer. 2.) Annann enn vægri þar og fallinn 25ta Maji 1818, en litlu ſídar øldúngis ſtadfeſt-ann af Hæſtaretti, med hverjum Stridsrád L. F. B. fyrir ótugtuguſtu umgengni og hørku vid 10 ſtúlkubørn honum til kennſlu fyrirtrúud, frá 12 til 16 vetra gømul, fyrir — eptir høgg og ſløg — med þeim framid likhamlegt, jafnvel ſkammarlegaſta óedlis loſta ædi, og fyrir miſk-unnarlauſa hørku medferd á drengi í þjónuſtu hans, var dæmdur um 2 ár í Khafnar Betrunarhús og til málskoſtnadar útláta. Miſti hann undir eins Rang og Titil ſinn ad Kongings bodi ſtrax eptir. Ad ſønnu krafdi Sóknari málſins hann til dauda dæmdann, edur ad minnſta koſti til kagſtrýkingar, Húslódar tøpunar og feſtingar þrælkunar æfilángt, edur um viſſann ára tíma, en Rettirnir fundu ſekt hans ad ſønnu þvi nær, en þó ecki nóg full-ſannada, þar hann neitadi meſtøllum framburdi barnanna, hvers gyldi, vegna úngdóms og egin málahluta hann hratt, ſvo einúngis þvi algjørlega ſannada, ſannſt þetta — ella væga ſtraff — ad hæfa, med tilliti til DL. 6—22 Kap. og Tilſkip. frá 9da Júlii 1745. En ſerlegra tel eg ſamt, 3.) meir enn 80 ára Kóngsbref frá 11ta Nóv. 1739, med hverju Stjúpfadir, ſem med høggum og ſløgum hafdi naudgad 16 vetra óuppfrœddri Stjúp-

naudugar med ráni edur herfángi, mót vilja þeirra manna, sem ad løgum eiga þeirra forrædi, og mót eginn vilja þeirra qvenna, hverju, sem sídar gjøriſt vilji þeirra vid samviſtir, eda þessu álíkt; 2.) ad hlaupa burt med eignarkonur manna — þó med þeirra qvenna vilja sé. — Vid hverttveggja leggur Mannh. II. Kap., sem óbótamál, útlegdar straff og lífstjón útlagans, ef framar í landinu hittiſt.

Nleg, enn þótt í þessu efni hjá oss ógyldandi, leggja í 6—13—22 í sídara tilfellinu eins, lífsstraff fyrir bædi, eins konuna, sem viljandi hleypur frá manni sínum burt med ødrum; hér meinaſt eins og um qvenna-rán í fyrra tilfellinu — í lausúngar tilgángi — hvert, sem bædi eru gipt, en ef annad ógipt, medfram í hjónabands von beggja, þó ecki fengiſt þar í landi, þá máske annarstadar; er þad þá tvøføld gipt-

dóttur sinni til blódskammar med ser, vard nádadur med festingar erfidi æfilángt, en hennar straff eptir Hæſtarettar Dómi, sem var 6 ára Túkthúss erfidi, stadfesti Konúngur. Má þar á bord vid meta nádarbref Konúngs frá 23ja Jan. 1694, sem baud: ad G. E. d., sem dæmd var frá lífi fyrir blódskømm med Stjúpfødur sínum framda, skyldi sleppa med húdstroku og burtvísun úr þeirri sókn hvar brotid skedi, þar henni hefdi naudgad verid. En, ef svo var, um hvad var hún þá sek? og fyrir hvad átti hún saklaus ad húdstrýkjast? (Sjá svar uppá sp. No. 1. bls. 70—71)

ing með 2ur lifandi møkum og er í § 8da Hjónabands Ordinanzíunnar frá 1582, um tvímisleg Hjónabands tilfelli, rát fyrir gjört, að hún og varða megi lífstjóni, þó straff það í vorum legum sé hvergi berlega útrekið. Ecki heldur neitt um giptar konu, sem í lausúngar tilgángi hleypur burt frá manni sínum og tekur saman við annann, hver mál því er vandhæfi á hér að dæma, og hvar så tilgángur einn til hennar burtstroku augljós er, stórhneixlanlegur og illgjarn, verðist heldur annað alvarlegt, en ecki lífsstraff hemi hæfa hjá oss eptir málavextum. Þannum nær ecki til þeirrar konu eður manns hitt straffið, eða sérlegt, sem skilja af ósamlyndi eða báginduum, fara hvert í sína átt, og, enn þótt óskilin að legum, taka seinna saman við aðra gipta eða ógipta og falla með henni í legorð. (Sjá dæmið um *V*. og *P*. í Hæstaréttar Dómi frá 10da Maji 1820 í Klpósti s. á. bls. 163—67.)

Um qvenna-rán gyldir annars sama, sem um naudgun þeirra, hvert sem með ofríki eða ógnunum framið er, sé það þeim naudugt, því sama straff liggur við, hvert sem ránsmaður fékk vilja sínum með þeim framkomið eður ecki; en af sömu ástæðum, sem um naudgun qvenna eru nefndar, sýnist så mega náðar vænta, sem ógiptur er og rænir burt ógiptri konu, ef hann seinna meir með hennar og forsvarsmanna vilja fær að ekta hana, en ella allteins skyld-

ur til ad gjalda henni fulla rádspjalla bót, þeirri þo einni, sem ádur hefir gott og af lausúng ógallad rykti, og í þeirra tilliti synist allt straffid heimfærandi, eins og vid naudgun, en vart annara. Sá þar á mót, sem ógiptur tekur burt ógipta konu med vilja hennar, enn þótt í forbodi Løgverjara, fremur ecki qvennarán, en bádum má þeim hæfa straff eptir málavøxtum, þó med tilliti til §. 1. í Tilsk. frá 3ja Júnii 1746 og Ordinantzlu frá 1582.

§. 24.

Tvøfold gipting med 2ur lifandi møkum (bigamia simultanea), nefndi eg bls. 73 ad varda mætti líf tjóni, hvad þó ecki med berum ordum er vid henni lagt í vorum løgum, heldur í N. L. 6 — 13 — 24, sem þó ecki gildir hjá oss. En sú tilnefnda Hjónabands Ordinantzía, sem í § 8. gjørir ráð fyrir, ad sá svo sekí nádist á lífinu, bendir þar med til lífsstraffs; metur þó hinni persónunni, sem ecki vissi af fyrri giptingunni, hverki sina med fulllkum til vansa, né sekta, né børnum þeirra til skada uns hún opinberast og sú saklausa persónan eptir þad framheldur í hjóna samlífi vid þann seka; úr því telur sá Artikuli hana hórseka, leyfir henni eckí sambúð vid hinn, og býdur þeirri brotlegu, ef hún nádast, ad hverfa aptur til ens fyrri maka, ef sá þessa náda vill; verdi þad ecki, má sá fyrri maki vera laus vid fyrra hjónabandid og ødr-

rum giptast. Eins sá seinni saklausa, sem strax tekur sig frá sambúd vid þann brotlega maka, þegar hún fyrst veit af fyrri giptingu hans. Haldi hún sambúd lengur frem, verdur hún hórsek, en sá, sem ógipt fyrifram vissi hinn giptann og lét svo gefa sig í hjónaband med honum á, eptir málavextum, hardara enn hórstraffi ad sæta, líti menn til líkra ástædna laganna straffs í NL. 3—18—7 og 6—13—22, hverjar Laga-greinir þó ecki eru Íslandi Lög, enda mundi straffid eptir 3—18—7 nú ecki hæfa þeim, sem skilinn er ad bórdi og sæng, heldur saungjarnt vægara. Samlegu þeirra seinni bløglegu hjóna vyrdist ecki þurfa, heldur ad eins ad hjónavígsla med þeim sé framfarin til ad fella þann ádur gipta til laga straffs fyrir tvøfalda giptingu, en áformad hjónaband slíkra, til dæmis: med framførnum lýsingum, þó ecki sé vígslan skén, vyrdist saungjørnu vægara straffi þess gipta sæta eiga.

Sama má samt til vægdar-vonar frá reglulegu lagastraffi og til afsøkunar þeim seka (manni edur konu), gylda, sem talid var um hórdóm, bls. 8—9 (sjá og §. 30. No. 2, og einkum þar eptir NL. 3—18—15 No. 2, 5, og konúngl. Urskurdi frá 1810, nefndum í §. 30. No. 2.), þá vitnisburdir framkoma og gyldir metast, ad maki annars dáinn sé á lángferdum eda í leidángri, þó þeir verdi eptirá rekir; annars ber eptirverandi maka í 7 ár ad bída

þins, ef eckert tilspyrst; lengur ef frjettist, ad hann fánginn sé.

Hardt þykir annars laganna straff fyrir tvøfalda giptíngu eptir Canóniska réttinum vera, þegar líf-tjóni sæta skal, en vorir mildu Konúngar láta þad aldrei framqvæma, ecki heldur sekta Dómstólar þá seku sérílagi fyrir útvegun og brúkun falskra vitnisburda, til ad ødlast hjónaband, án hverra þad ecki gétur þenkst, gái Prestar skyldu sinnar, heldur állita þinir þessara útvegun og brúkun ad heyra til sjálfs afbrotsins, og hennar straff því ásamt ad innibindast í hinu þyngra fyrir giptínguna p).

---

p) Sem dæmi þessa tel eg: Dóm-ens konúnglega Landsyfirrettar i Khøfn, fallinn 24da Okt. 1804, sem dæmdi Th. Chr. C., sem ad konu sinni lifandi, hver þó hafdi yfirgefid hann, en ad engum skilnadar dómi med þeim gengnum, giptist annari — til 14 daga fángelsis vid vatn og braud — en konuna A C. Sp., sem hann í sídara sinni ektadi, og sem vissi fyrirfram ad hann ádur giptur var, til 10 rdla bóta til fátækra, og stadfesti Hærstirettur þann Dóm øldúngis, þann 24da Nóv. 1804. Annann Dóm feldi sami Landsyfirrettur 6ta Nóv. 1804, med hverjum kagstrýktur æfinlegs þrældóms fángi giptur, sem strauk, og ljet med følskum Svaramanns vitnisburdi, er hann sjálfur skrifadi, og fjeck konu til ad láta 12 vetra son sinn skrifa, gefa sig í hjónabandid med annari konu, var dæmdur frá lífi, en falska Attestid ecki til serlegra sekta honum matid; konan, sem ljet barn sitt rita þad, var dæmd í

§. 25

Ef Prestar enn eiga kall ad missa fyrir oftímanlega samsængun med konum sínum (eptir § 13), svo Köngsbr. frá 25ta Nóv. 1791 ecki nái til þeirra, munu þeir ellu heldur missa þad fyrir legords-brot, med ödrum qvennmönnum útlfrá. Þetta fyrirskipar og med berum ordum Tilskip. frá 10da Dec 1646, bædi fyrir hór og lausúleik þeirra. Sama er og audvitad af NL. 2—2—5 bodordi og fyrr umgétins Köngsbréfs frá 9da Maji 1738, sem ecki leyfir legords sekum Stúdenti, ad framast til Skóla, Djákna, eda Prests-Embættis í 2 nærstu ár, eins og Tilskip. frá 16da Maji 1646 ádur bodid hafdi; ecki heldur Presti ad halda Kalli sínu, sem oftímanlega samsængar konu sinni; þetta Köngsbréf tiltekur Stúdenta legord (þess vegna meir enn oftímanlega samsængun), til hneckirs frama þeirra; en lætur þessa nægja til ad svipta Prest kalli; var því audvitad um þá legords-sekt Prests, eins hér — vegna sömu ástædna — þó NL. 2—2—5 og Köngsbr. frá 9da Maji 1738 ecki sé lögmál hingad gésid; þetta því framar, sem sá sidalærdóms- og dygda-kénnari állest þar til óhæfur, sem í verkinu lisir svo hneixlanlega gagnstædt kénningunni í augum þess Safnadar, sem hann vegleida á. (Samanber

Betrunarhús um 6 mánudi. Drengurinn þókti of úngur til straffs fyrir þetta.

Nr. 2—11—1). Legord svipta þvi Prest og sérhvern Geistlegann, svo sem: Skólakennara, Djákna og Stúdenta bædi geistlegum braudum og frama von til þeirra. Stúdenta frama, von fyrr enn ad 29ja ára fresti, eptir fengna konúngl. uppreisn eptir nýnefndri Tilsk. frá 16da Maji 1646 (sjá Løgþ. bók 1647 No. 2.), en Prest braudi, eptir annari frá 10da Dec. 1646, hvert heldur er fyrir hórdóm edur lausaleik. Þó fæst þess uppreisn traudlega í þeim Sóknum, í hverjum þeir urdu brotlegir, en falli þeir svo tvisvar, er fortekid ad þeir fái Prédikunar Embætti framar. Þó er dæmi til hér í landi, ad Prestur (J. Th.), í einstaklegasta tilfelli ødlast hafi uppreisn eptir mørg ár til Prests Embættis, jafnvel eptir tvisvar framinn hórdóm, sem er þó miklu saknæmari legords brot fyrir Presta (nefnil. þann 6ta Febr. 1772 og sami aptur 11ta Aug. 1786), en — þá í ødru Amti Lika annad frá 18da Aug. 1685, ad Stúdent *H. O.*, sem átt hafdi 3 børn í lausaleik, sitt med hverri, en ektadi seinna þá sídustu hann fell med og fékk uppreisn til ad verda Prestur-

Þó NL 2—11—13 banni Prestum undir Embættis tjón ad giptast konu, sem ádur hefir ordid legords sek, og fyrrnefnt Kóngsbr. frá 9da Maji 1738 (hingad aldrei sent), ítreki hid sama, er þó slíkt vottur um eldri tída krøfu, ad Prestar væru eins ábyggjusamir med ad velja sér maka med óspjølludu rykti af legords-

brestum, eins og um, ad verda sjálfir ecki ad líkum fundnir. Samt eru bádar þessar lögmáls greinir, þó menn svo, vegna líkra ástædna, vildu hér gjöra þær gyldandi, um þetta harda og midur þæfilega straff, aldúngis óheimfærandi til annara enn Presta, rétt eins og ordin í bádum uppáhljóda, þess vegna ecki til Skólakennenda, Djákna edur Stúdenta, sem leyfislaust mega ad ósekju giptast legords-spjølludum konum og þó eins fyrir þad vænta sérhvers geistlegs frama. Styrkir þá meiningu Cancelltbr. frá 8da Oct. 1791 (í Fogtm. Alphabet. Reg.), sem telur Djákna óþarft leyfi til hjónabands med legordsspjalladri konu; líka má svo skilja Cancbr. frá 12ta Okt. 1819 (sjá Klpóst 1820 bls. 138, sem segir Geistlega, ef ekta vilji þær konur, ega øllu framar enn þær, um leyfi þar til sækja), ad konum þeim sé sú gipting heimil leyfislaust, en sé sá geistlegi Prestur, sem girnist ad ekta þvílíka, megi hann leyfis þar til beidast (líklega eptir NL. 2—11—13 og Kóngsbr. 9da Maji 1738. q)

q) Í fyrndinni mun hier vægra tekid hafa verid á legordum Presta enn á seinni tímum, því þann 5ta Apr. 1677 baud Danmerkur Rikis-rád hier ad taka Dóma um: hvert Prestar á Íslandi ættu ecki, sem þá í Danmørku væri tídkanlegt, ad missa Kall og Embætti fyrir hórdóm, en fyrir lausaleik Kallid einúngis (en ecki Embætti). Løgþþ. 1647 Num. II. vottar og, ad Løgrettan øll vildi, ad Konúngi yrdi fyrir sjónir sett: ad

§. 26.

Þeir, sem ad legordum sekir verda ádur enn (confirmerast) firmast í Kristinndómi, edur á medan þar til undirbúast, áttu eptir Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 §. 13., ad standa opinberar skriftir þó þau brotlegu giptust saman; bædi eins, þó annad þeirra brotlegu væri konfirmerad; en hafi þau án ákomins hjónabands loforðs ordid ad legordi brotleg, áttu bædi, auk aflausnar, ad setjast 3 Sunnudaga í röd í Gapastock, þá fólk gengi úr kirkju. Þar Tilsk. frá 8da Júnii 1768 sídan aftók aflausn fyrir öll legord, og önnur frá 23ja Maji 1800 í §. 3. ellar bætur og sekt í hennar stad, verdur ecki framar um hana spurníng; en, fyrst Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808 í §. 9. eldúngis fyrirbaud hér í landi sérhvert opinberlega smdnandi straff, medal hverra Gapastocks var hid helzta, er þetta aldrei framar áleggjandi, heldur ber fyrir þau, sem ókonfirmerud saman, edur med ókonfirmerudum falla í legords-mál, eptir

F

Prestar fengjust hjer hvergi nærri nógir til Brauda, væri hardt á þeirra lausaleik tekid, og leyfis beidst fyrir Ljensmann og Biskup, eptir málavortum, ad sekta þau legords-brot. Og sama fóru bádir Biskuparnir Brynjólfur Sveinsson og Þorlákur Skúlason á flot 1650, vid Fridrik Konúng III. (Sjá Hist. Eccles. Isl. Tom. III. Pag. 627.)

málavøxtum af Dómaranum ad ákvarda, máské helzt þarfilegar bætur til fátækra í gapastocks stad, ellegar þann minnsta, það er: 10 vandarhagga Pólití-aga, samqvæmt nidurlagi §. 7.; medfram med tilliti til bodords Tilsk. frá 2rum Sept. 1745 (fyrir Danm. og Norveg), sem í þessu tilliti álagdi Tukthúss-vinnu straff um hálft eda heilt ár, í hverrar stad hér yrdu nú 10 vandarhøgg, þar íssárverdt mundi framar ad straffa óuppfræddann úngling enn betur mentadann r).

§. 27.

Þó D. og NL. setji fleiri legords-brot í enna saknæmari rød, t. d.: Løgverjara Ekkju eda ómyndugrar stúlku med þessum, eptir 6—13—2, og legords-brot med Tignarmanns Ekkju eda dóttur, eptir 6—13—10, en Tilsk. frá 9da Júlii 1745, og Kóngsbr. frá 9da Maji 1738, Stúdenta brot med stúlkum, hverra kénnslu þeim er fyrirtrúad, og

r) Kóngsbr. frá 4da Maji 1753 tiltók í Norvegi fángelsi vid vatns og brauds vidurværi í 2 eda 3 vikur. Í Finnmørku baud Kóngsbr. frá 5ta Martz 1756, ad svo brotlegar stúlkur þjóna skyldu þar hálft ár í vist, en piltar heilt ár, einúngis fyrir kost og klædnad. Kóngsbr. 29da Jan. 1796 nádadi svo brotlega stúlku med fyrstnefndu fángelsi, og annad frá 28da Apr. 1797 giptann mann, sem fjell med ókonfirmeradri stúlku, med 8ta daga þvílíku, fyrir það hórdóms-brot.

taki svo hardt á þeim afbrotum, ad svo stór-sek-
um Stúdenti eda Kennara aldrei veitast megi
uppreisn til nockurs frama verdslegs eda geist-
legs framar, hvert sem þau ektast edur ecki, en
bjódi þar hjá, ef hann ecki ektar eda fær ad
ekta hana, ad hann skuli vera ærulaus og
þrælka æfilángt i festíngu í járnum, eru oss
samt híngad á land um þvíllk stórsaknæm leg-
ords-brot, engin sakalög gésin. Dómstólum
þess vegna vart á medan heimilt hjá oss ad heim-
færa þessi, edur ákvarda sérlegt straff í þess-
háttar tilfellum, sem lög ecki leysa eptir mála-
vöxtum til straffs ad meta.

§. 28.

Þær rökfemdir um sekt í legords-mál-
um, sem vór gyldandi lög krefja til straffs, eru
eptir þeirra brota edli hmislegar; þanninn er
í §§. 13. og 14 sýnt: ad barnsgétnad vidþurfi
til fridlulisis-sektar, en ad samlega ógiptra
án hans, sé ósaknæmari lausúng. J hórdóms
málum þar á móti krefja hverki íslendsk né N.
Leg barnsgétnad eda fædíngu til hórdóms-
sektar, heldur Stóridómur einúngis: "ad hann
"sannprófist med opinberum verkum, edur
"löglegum skilríkum vitnum, eda sjálfra
"þeirra (brotlegu) viljugri, ljúfri og óneyddri
"medkénníngu og vidgaungu." Jónsb. Mh.
II. Kap. krafdi samt ecki meira til allra legords-

sekta, „eñn ad nockurr stædi mann á konu sinni med løglegum vitnum" til sektar og fullra manngjalda af þeim brotlega, eptir því sem hann var madur til, en hálfra manngjalda, „ef sama vitnadist um Módur, Dóttur eda Systur manns, ef þær væru ógiptar". (sjá þar og XXVIII. Kap.) Ad gánga i sæng til konu til ad koma legordi á hana — þó þetta ecki fullgjørdist — lét Ovennag. V. Kap. varda sekt eptir 12 manna dómi. NL. 6—13—25 krefur einúngis til hórdóms sektar, ad framinn hór verdi sannadur. NL. 6—12—4, 5. bjóda: ad sá, sem finnist samreckja annars manns konu, falli þar, sem uppvís ad hórdómi réttlaus; en þó hórsekt hans sé opinber, vardi dráps straffi ad vega hann annarstadar eñ í rúminu, hvar hann var stadiñ hjá añars mañs konu, sem vitna átti um sekt hans og veganda naudverju. Arna Biskups Kristinnr. krafdi í XVIII. Kap. 2 eda fleiri sjónarvotta um hórdóm konu, edur ad hún yrdi barnshafandi.

Adgætandi er þó í tilliti til Stóradóms tilnefndu røksemdar um hórbrot, „ad þad sé ljúflega medgengid og játad", og vardi þad þá fullri hórdóms sekt, ad Hjónab. Ordin. frá 1582 (eins og NL. 3—18—15, 1.), álítur egin játníngu um þvílík brot ónóga, "þar margur í þeim efnum medkénni þad á sig, sem hann ecki er sekur af, til ad ødlast hjónabands skilnad, eda spilla þar med annara mannordi og heill";

stÿrki samt adrar sterkar líkur hana, vyrdist henni vart hneckjandi. Þvi ætlast og Cancbr. frá 19da Febr. 1791 til ad Yfirvøld Rèttvísinnar vegna átelja láti hneixlanlega samsængun giptra med ógiptum eda annarlegum maka, þó barnsgètnadur ecki sanniſt. Þvi dæmdi og så konúngl. Lands- Yfir- og Hofs- og Stadar-R. í Khøfn, þ. 13da Jan. 1807, konu hórseka, sem med sampycki manns síns gaf sig fala til lausúngar fyrir betaling, og hana þar hjá um 4 år til Betrunarhúss, en manninn til 6 åra Rasphúss erfidis, fyrir þad hóruhúss- Ilferni og hald, eptir DL. 6-13-24, 30, og 6-22-5. (sjá Juridisk Archiv No. 12, bls. 124.)

Tvø vitni, og þegar þ: n skorta sterkustu líkur krefjast eptir fyrrsøgdu í §. 22., til sektar fyrir naudgun qvenna, eda til þess, ad þar um åkjærdur hreinsi sig frá þeim áburdi med eidi, og eins er þar sýnt, ad barnsgètnadar ecki vidþurfi til ad vinna þar med til fullrar sektar, þvi eldri løg, t. d. Jydsku Løg í 2 B. 13. Kap. (eptir Anchers útgáfu 1783 bls. 100), telja þad víst, ad kona ecki yrdi barnshafandi mót vilja sínum, þó NL. 6-13-19 gjøri rád fyrir, ad svo megi þó til vilja. Þó ber ecki naudgun framfarna ad álíta, nema gyld vitni eda sterkar líkur og eids undanfærsla þess åkjærda, og bråd, løgskipud klagan qvenna yfir lidnum þeim ósկunda, opinberlega hana stadfesti. Vitnaleidsla og yfirheyrsla um

framinn hór og naudgun qvenna og þaradlút-andi líkur, má opt verda yfrid hneixlanleg á-heyrnar, og því henta ad hún framfæri innan luktra dyra, eptir bodi Kóngsbréfs frá 19da Aug. 1735 um öll hneixlanleg mál.

Um qvenna-ráns sekt þarf engu veikari rök-semdir og vitni, enn um naudgun vóru taldar; ecki heldur krefst barneign til fullkomunnar þess ódædis. Þessi fær ecki þenkst vid óedlis sam-lögun samkyns manna eda bestiulega, þó þarf gy[l]dustu vitni til ad sanna, eins innan luktra dyra, þvílíkt óbótamál. Vid tvøfalda giptíngu (bi-gamia), med 2 Ektamøkum á lífi undir eins, er sektin fullgjørd strax ad framfarinni hjóna-vígslu til þess sídara, hvert sem nockur sam-sængan eda barneign á eptir fylgir, þeirra, sem vitandi um þessa meinbugi drýgja þetta afbrot, og hver afsakan frá straffi eda þess vægdar von gefast má, sýnir §. 24.

Til blódskammar-brota sektar eptir §. 19. álíta Dómstólar erlendis almennast ecki þurfa barnsgetnad, heldur ad eins samlegu þeirra brotlegu. Vor Stóridómur nefnir hveruge til, heldur ad nástkyldir eda nátengdir í eldúng-is forbodnum lidum verdi brotlegir sam-an, en hvert heldur med barneign eda samsæng-un, er ecki berlega tiltuefnt. Brot sýnist þó lík-legast ecki ad álita áfallid (síst svo stór-saknæmt), þegar legin þar um þegja, vid samsængun eina, eda hafa ad heimfæra lífsstraff, sem vid blód-

skømm liggur, til annara tilfella, enn hvar lagaords brot almennast álltast fullkomnud, sem er med barneign saman eptir berum ordum Stóradóms og Kóngsbréfs frá 30ta Nóv. 1759 um lausaleik, sem útleggur svo hjálegu jafn óljóst orda-tiltæki N. 6—13—1. Barneign krefur og 6—13—13 til meinbuga-brota, en sá 14di Art. nefnir eingis, likt og Stóridómur um blódskømm: „þeir, sem brotlegir verda í fyrirbodnum lidum mót Gudsløgum," hvar brot má náttúrlegast þýda, sem í næsta 13da Art. á undan, barneignar brot, og eins í Stóradómi. Lika má vyrdast ísjárverdt ad dæma mann frá lífi, þó vitnist, ad hann hafi samrækt svo nákomnum, en máské um alls ekkert samrædi framfarid þeirra á milli, enn sídur, ad barneign sanni þad. Þó ordatiltæki Tilskipunar frá 23ja Maji 1800 í §. 1., segi hjónabønd og samlegu svo nákominna, sem sú grein tilnefnir, vera blódskømm, er hér 1.) í §. 19. talid dæmi þess, ad sú almenna Tilskipan ecki álítst umbreytt hafa Stóradóms sérlega bodi um búslódar tøpun fyrir þetta ódædi, auk lífs-tjóns og má hún þá engu framar metast heimfærandi til samlegu einnar, fram yfir Stóradóms ord. 2.) Má ordid: (Sammenleje), samlega í þeirri Tilskipun allt eins skiljast, meina barneign, þar, eins og sama ord berlega þýdir barneign í Kóngsbréfi frá 25ta Nóv. 1791 og telur samlegu ósaknæma, hvar barn sé ecki fædt á undan gipt-

íngus). Ad um hór finnst sérleg undantekníng, og eins um naudgun qvenna og konuran og tvøfalda giptíngu og ódedlis samrædi,

*) Kóngsbr. frá 26ta Dec. 1646 gefid til Íslands, vyrdist einninn stadfesta þá meiníngu, ad barneign þurfi til blódskammar straffs, og ad samsængan ein eda samfara játníng ecki felli neinn til daudastraffs. Í þar framsettu dæmi hafdi J. B. verid ákjærdur um framda blódskømm med B. A. d., þvi módir hennar var J. gipt. Módirin hafdi med 12 manna eidi sannad, ad J. væri dádlaus (impotens) og hefdi eckert samrædi vid sig haft, og 8ta menn adrir med eidi sama styrkt, dæmdi Løgrettan þau því hvert um sig til 9 marka bóta, en med þessu bresi Kongúngs var þeim álýktad lífsstraff, þared — segir Kongúngur — Lærisedur vid Rhafnar Háskóla hafi álitid barneign þeirra vitna um beggja sekt, og ad J. ecki var impotens. Barneignin ein olli því beggja dauda. Merkilegir Dómar fiellu í Danmørku 1820, um blódskammar mál: því þann 22ann Jan. s. ár, dæmdi Hjeradsfógeti M. og hans Meddómsmenn P. K. og ødrum gipta Stjúpdóttur hans, sem fyrir framda blódskømm til dauda og ad kroppar þeirra, eptir hálshøgg, brennast skyldu á báli, m. m.; en þ. 4da Maji s. á. fríkenndi Hærstirettur bædi øldúngis (sjá Stats-Tid. þ. á. No. 72). Ad full røk — med samsængun eda ødruvísi — eda sterkar líkur um samfarir þeirra ákjærdu, hafi í málinu framkomid, má ráda bædi af Undirrettar dóminum og því, ad Hærstirettur ecki sektadi Dómarann fyrir svo stórkostlega fráleitann dóm, en ad þau fríkenndust, er líklegast verid hafi vegna þess, ad engin barneign var á þau sonnud saman, máskje ecki heldur als

stadfestir: ad í ødrum tilfellum egi almenna reglan, ad barneign þurfi til legords-sektar ad gylda; en ad um sérleg er undantekning frá henni, er hvad hór áhrærir vegna þess máské helzt, ad ótrygd ektamaka, einkum konu, sem er enn saknæmari enn manns, sjaldnast verdur med barneignum uppvís; sé þó samlega med ødrum útífrá annars kyns sønnud á gipta persónu, vyrdist ránglæti ad binda hina saklausu lengur ár því, enn hún sjálf vill, vid hennar hjónabands tryggarofa; samt sýnist ecki reglulegt hórdóms-straff fyrir eintóma samsængun, hvar hinn ákærdi ecki med gyldum vitnum er um framdann hórdóm sannfærdur, vid ega, þó saklaus Ekta-maki fái vid hana fulla skilnadar orsøk, heldur fyrir líklegt eda áformad hórdóms-brot (adulterium attentatum), annad hæfilegt minna, eptir málavøxtum; eins fyrirgjørir svo brotlegur trúlofadur hjónabands-rétti, þó barneign þurfi til annara hans legords-sekta (sjá §. 31.). Um hin hér ad ofan og í §. 21—24 tilnefndu brotin er hverki ætlad til ad barneign þurfi ad full-

gjørlegt samrædi. Ad konan samt ecki vard hórdóms sek, má og verid hafa vegna skortandi fullra røksemda um þeirra samrædi, eda þess, ad madur hennar, eptir þad hann vitandi vard um hinna samfarir, hafi samt samreckt henni, og þar med fyrirgjørt allri ákjæru til hennar um legord med ødrum, eptir D. og NL. 3—18—15, 4. og Hjónab. Ordin. frá 1582.

komna þeirra sekt, nè hún haldin vid sum þeirra mogulegt, ecki heldur eptir hennar auglýsingu bidandi med straff þeirra ódáda.

Ad barneign vafalaust þurfi ad auglýsast, til ad fullkomna hinna meinbuga-brotenna sekt, sem §. 20. tiltekur, verdur nú augljóst-ási bæti af Stóradómi, sem leggur hædsta straff á þeirra strekun eptir sinna tölunni, og af NL. 6—13—13 allteins, þvi útþrýckilegá er þar tilnefnt: „ad menn í meinum liggi í vondu samlífi og ábli barna saman" " Eins er þad vafalaust, ad barneign þarf til sektar þeirra legordsbrota; sem §§. 13., 25., 26. og 27. tilnefna.

En — bædi í tilliti til ofrlmanlegrar samsængunar med konum sínum, sem §. 13 bls. 30—31 taldi jafnvel þér veida mega Prestum saknæma, og eins til spurníngarinnar: hver börn álíta beri, sem ekta-börn í annara hjónabøndum, þegar þessi fædast venju skémri tíma — eda máské venju lengri — eptir brúdkaup hjóna? verdur sú røksemd, markverd, um vidkomenda saklepsi eda sekt, sem um líklegastann og réttastann medgaungu-tíma qvenna verdur áqverdud. Løgin tiltaka hverki þann styttsta nè lengsta, heldur Tilsk. frá 23ja Maji 1800 §. 4. venjulegann 9 mánada tíma, sem votta skuli, hvert nýfædt barn megi, ad løgum, ekta eda bekta álítast, til dæmis: þá bóndi deyr eda er í lángferdum, lengi fjarlægur eda svo sjúkur, ad faderni sè honum ecki eignandi, ádur enn

skyktist eda ferdadist, heim kom aptur, eda til heilsu, og hann nejtar því. Eg hefi á bls. 31 til þess bendt, ad vidríkjandi saknæmi ofttímanlegrar samsængunar Presta med Konum, muni þørf á greindra Lækna, edur ad minnsta kosti ysirheyrdra og eidsvarinna Ljósmædra áliti, um útlit þeirra barna, hvert fullburda vera muni edur ecki, til samburdar vid medganngu-tímann. Almennt álita Læknar nú 7 mánudi offtuttast tíma, hafi barn fullburdar útlit, og 10 mánudi oflángann, ef vert edur ecki fullburda fædist. Eptir Cancell:br. frá 1. Maji 1802 þordi Lækna-Rádid í Kaupmannahøfn ecki med vissu ad segja þad barn hørgétid, sem fæddist fødurnum 8 mánudum seinna, enn Kona hans deydi, og qvad 8 mánada børn vel lifad géta, og verid jafnhraust 9 mánada gømlum, svo ad á hinu sagdist eckert, en Kóngsbréf frá 17da Júlii 1739 gjørdi, med §. 4., þann einn legordsfekann, hvers kona fæddi honum hraust og fullburda barn innan 18 vikna frá brúdkaupi þeirra. Samqvæmt því áleit Cancellíbr. frá 21ta Sept. 1793 þau hjón sakfallin til bóta fyrir ofttímanlega samsængun, hverra barn fæddist ádur enn 18 vikur lidnar vóru frá þeirra brúdkaupi, en ecki ella. Máské sú regla væri því sanngjørnust allteins um Presta ofttímanlega samsængun, megi Kóngsbr. frá 25ta Nóv. 1791 ecki vera þad, þó hún audsjáanlega hafi vidkomendum med sekt svilnad; same verd-

ur þún ecki heimfærandi uppá hjónabands-rétt, þegar bóndi átelur konu sína um hór til skilnadar, ecki heldur uppá erfda-rétt þeirra barna, svo sem ekta borinna, sem fædast strax eptir hálfnadann medgaungu-tíma, í hverra tilliti fyrrteldum almennum reglum eptir Lækna áliti verdur framar ad fylgja.

§ 29.

Sókn um legords-mál hæfir ad sé annadhvert hæfdud ad Yfirvalds bodi (public) edur ad tilhlutun hlutadeigenda, sem med þeim ásættir eru (privat). N.L. 1—2—21 sýnir, ad hid fyrra er Yfirvalds skylda, hvar opinbert straff liggur vid afbrotum, þó nú ecki framar í bótamálum, sem leida af privat-sjøfnudi í framm hefdum, eptir Tilsk. frá 20ta Jan. 1797, §. 13, nema opinber rósemd raskist vid hann (sjá §. 14. og Sætta Handqver mitt, bls. 32 og 43) Í §. 8, bls. 14—17 hefi eg nefnt þau løg, sem krefja Dóm um sérhvert hórdóms-brot, samt varla, nema þá barneign auglýsir þad, því taki hinn makinn ella þann seka aptur, er ecki þá venja mál um annann hórdóm ad hefda. Snemma, enn þótt helst á seinni øldum, tóku løg ómjúkt á hórdómi. Þó vor Landsløg, nefnil. Jónsbók, ætli manni ad sækja sjálfum rétt sinn mót þeim, er hórast med konu hans, edur á hverri hann stendur mann (Mh. II. XXVIII. og XXXI. Kap.), edur

nánasta Frænda karlkyns rétt á legordi qvenna, en legdu lítinn rétt konum þar á mót, þó bændur þeirra hórudust t), sýnir samt Kristjáns Konúngs IV. almenna Tilsk. þ. 25ta Maji 1636, sem í §. 5. bannar sérhverjum Lénsmanni ad forlíka hórdóms-mál, en skipar honum ad leggja þau fortakslaust til laga og réttar, ad þetta afbrot var þá talid public, og krefja Yfirvalda Sóknar adgjørdir til straffs. Auk laga, sem §. 8. og 16, einkum bls. 15—16 og 50 nefna, ad krefji Dóm og løgsókn ad Yfirvalda tilhlutun um hór, fyrirlagdi Stiptamtmanns skipan þ. 18da Júlii 1780 (í Løgþb. s. á. bls.

t) Sama var og eptir eldri Danaveldis Løgum, og sjálfs Kristjáns IV. NL. Erfdat. V. Kap. Þad verdur annars ecki varid, ad hórdómur qvenna byrdist enn miklu saknæmari, þegar uppkemst, enn karlmanna: 1.) vegna þess ruglings í ættum og óvissunnar um faderni barna, sem med hinum orsakast, og má olla saklausum bónda ofþúnga og vidqvæma byrdi af annarlegra barna uppeldi, en eginbørnum hans óverdskuldad arftjón. 2.) Vegna vandrædanna ad sannfæra konu framar enn mann um framinn hór, og því meiri fyrir hann ad fá sig løglega løsad vid þann hjónabands tryggrofa. 3.) Vegna enn meiri smánar, sem á manninn leggst, ad vera vid hórkonu bundinn, fyrst hóru-nafns og hórkonu-sonar brixl telst í løgum (Mannh. XXV. NL. 6—21—6) varda æruleysi. Því leyfa nú frønskn løgin nýu (Code civil Titre VI.) manni skilnad strax vid konu sína, sem hórast, en konunni ecki vid manninn fyrir sama, nema hann haldi hjákonu sína í sama húsi.

14) Sýslumönnum, ad tilkynna honum strax dómslok þeirra mála, eptir Kóngsbr. frá 15da Martz 1780, til vissu um Jústitz-kassans tekjur af Sýsluvístar bótum, og vóru þeir dómar ætladir til sönnunar þess kassa inngjalds reikníngum í þeirra bóta tilliti, álíkt því, sem Kóngsb. frá 25ta Júlii 1808, í §. 4 sídan ítrekadi um legords-bóta dóma Sakafalls-kvíssunum til inngjalda. Ad løgskipadar legords-bætur, nú helzt fyrir hór, ecki megi heimuglega medtakast eptir Kóngsbr. frá 3ja Maji 1816 §. 6., sannar enn á ný, auk fyrrtaldra og annara á bls. 15—16, 48—49 nefndra røksemda, nýr Konúngs Urskurdur frá 3ja Jan. 1821 No. 3. birtur med Canc. Plak. frá 12ta s. m., sem bannar Pólití dóma ad framqvæma án áqvørdunar Yfir-Yfirvalda, og eins ad afgjøra opinber Pólití-mál, án þeirra samþyckis, þó einhverr vilji gódmótlega bæta fyrir þau afbrot án Dóms.

Þó eg nú sýnt hafi, ad vor nú gyldandi løg krefji Yfirvaldanna tilhlutun um løgsókn og dóm fyrir hórdóms-brot, en þar hjá vor ellstu løg ætlad hafi helzt bónda- eda karlmanns-frændum og erfingjum konu, sem fell í hór, rett fyrir hana ad sækja (ad undanteknum sektum þeim þó, sem Kristinnr. Árna Biskups í XVIII. Kap. áskildi Biskupi af hórdómssekum); þau seinni þar á mót gjørt hórdóm ad afbroti, vid hverju lá opinber løgsókn

og þúngt áfelli, hafa samt seinni tímar tekid miklu vægar, enn eldri, á þessu afbrotiu), svo Tilskip. frá 13da Júnii 1771 baud, ad yrdi nockurr hór-sekur, bæri engum ákjæra um þad, sem privat-afbrot, nema einúngis þess sama saklausa maka. Þó nú seinni Tilskipan (vegna eptirfylgjandi biltínga), þann 27da Febr. 1772 apturkalladi hina, er samt almenn umqvartan løgspakra manna, ad laganna bodord um opinbera løgsókn og dóma í hórdóms-málum sé bædi ofhardt og ótilhlýdilegt, því med þeim brotum megi einstakir makar, en ecki Stjórnin áreittir vyrdast; vid løgsóknar útdrag straffid

u) Sjá og samanber hier um §. 10, blf. 19—20, einkum þau á blf. 20 nefndu Kóngsbr. frá 1819, vid Kóngsbr. frá 14da Febr. 1691, med hverju A. J. fyrir 4sinnum framinn hór, vard nádadur med útlegd úr landi og búslódar missir til nærsta Hospítals; annad frá 10da Maji 1710, eptir hverju Jón Sýslumadur Magnússon misti Embætti og ljensjardir auk Stóradóms sjebóta fyrir hór í 2ad sinn. Þridja frá 14da Maji 1728, sem nádadi S. Th. fyrir 3 hórdóms-brot med 3gja ára Brimarahólms þrældómi í járnum; en Kóngsbr. frá 6ta Maji 1729 E. J., fyrir sama brot med æfinlegum þrældómi þar; Kóngsb. frá 20ta Apr. 1745 Þ. O. fyrir 4 hórdóms-brot med aflausn og 4ra vikna vidurværi vid einsamalt vatn og braud, sem talid var ad gánga lífsstraffi nærst; nú þar á mót kostadi sama afbrot 1820 ónádad, eptir Hæstarettar Dómi (sjá blf. 21) þrenn 27 vandarhøgg. Samanber hjer med blf. 44—49 og 60—62 med nótum.

þyngjast um of, og þar sá kostnadur útarmi félags-bú hjóna, missi sakláus maki og børn mik-ið vid hana af eigum sinum og erfum, engum til gagns, en hneysa af ávyrdingu þess brotlega útberist med þinghøldum og dómum vídt og breidt bádum til gremju, svo bónda brotlegrar konu einkum verdi úr því varla fært lengri sam-búd vid hana, án stór-hneysu ættar sinnar og húss, þó hann ella vildi þad fyrirgéfid hafa, þegar þinghøld og dómar samt eru um hór-sektir løgskipud.

A bls. 46—48 hefi eg sýnt, ad um fyrstu 3 einføld lausaleiks-brot beri Yfirvøldum enga løgsókn til sekta ad høfda; þó undanskilst þad tilfelli, ad Faderni barns sé neitad, því þá ber hún tafarlaust eins í fyrsta sinni, einúngis samt um Fadernid, eptir Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 §. 11., en ecki um neinar legords-bætur. Í 4da sinni sagdi eg á bls. 50—51 þeirra løg-sókn og dóm vafalaust þurfa um lausnargjald frá fjórdúngs útlegd, likt og Sýslu-útlegd fyrir hór v). Ad opinbera løgsókn þurfi um

v) Spurning vard fordum, medan útlegdir þessar ecki máttu med bótum leysast, hvert vara skyldu æfilángt, eda hversu lengi? Løgin þøgdu þar um, en venjan innleiddi 3gja ára útlegd og leyfdi: ad bædi Fjórdúngs útlegd og húdlát eptir Stóra-dómi fyrir hórdóm í 2ru sinni, leystist med 3ur mørkum eda 4 rdlm Spec., hvar um Løgþingis-bækur 1673 —74 bera vitni.

enn fleiri lausaleiks brot, sem taka líkhamlegri refsingu; svo sem: naudgun qvenna og qvenna-rán, tvøfalda giptingu, blódskømm, meinbuga-brot og ódedlis-samløgun samkyns manna eda vid bestiur, einninn um legord Presta og oftsinnanlega samsængun þeirra med konum (ef ecki siálfkrafa gefa sig frá Embættum), er nú audrádid, þvi án dóms fær opinbert líkhamlegt straff ecki ordid neinum álagt, né Embætti tapast, vilji sá, sem þat hefir af sér brotid med legordi, því samt framhalda. Sama er og ad segja um ókonfirmeradra legords-brot eptir §. 26.

Neitad faderni barns tjádi eg hér ad framan krefja strax opinbera løgsókn, þó eptir undangengid forgéfins Sætta-próf eptir Cancellíbr. frá 26ta Júlii 1800 (sjá og mitt Sætta-Handqver bls. 37, 39, 56 og 87); einkum býdur Cancellíbr. frá 1ta Febr. 1794 opinbera løgsókn mót þeim lýsta barnsfødur, sem faderni neitar, en — dæmist honum eidur, ber honum ad stefna barnsmódurinni til áheyrslu hans og standa málskostnad. Ad øll sektog opinber løgsókn gegn legords-sekum, sem eptirá giptast, félli burt, var sýnt bls. 29 og 35, og baud Kóngsbr. frá 2rum Apr. 1762 sama. Privat-edur hlutadegenda einna-málsókn um legords-mál hæfir án Yfirvalda afskipta: 1.) Til hjónaskilnadar vegna hórdóms. 2.) Um hjóna-

bands-mál eptir loforðum þar um, og þar af leiddri barn eign. 3.) Um rétt og ráðspjöll qvenna, að því leiti sem þá heimila lög-sókn um slíkt. 4) Um burtvísun qvenna úr vistum legorða vegna. 5.) Um uppfóstur-skyldu og tillög með óekta börnum. Af sér-hvert þessara atriða vil eg stuttlega víkja, í eptirfylgjandi greinum.

## §. 30.

Hjónabands skilnað má leiða af legorðs-broti annarshvers hjóna, þegar þetta brot fram-ið er með annarlegri persónu, enn þess brot-lega rétta Ektamaka, með fullri vitund og vil-ja þess, er svo fellur, en sú þar með áreitta persóna vill ecki taka þá brotlegu aptur, held-ur krefur skilnaðar dóm. Ver þá þeirri, sem ákjærir, sjálfri að sækja það mál, eður sækja láta sín vegna, þó fyrst eptir undangengna Sætta-tilraun, þanninn, sem Tilskipan frá 20ta Jan. 1797 í §. 16. (sjá og Sætta Hand-qver mitt bls. 32—33), fyrirsegir, samqvæmt Tilskipun frá 1ta Dec. 1797, fyrir reglulegum verdslegum Undir-rétti, hvers dómi síðan skjóta má til ens konúnglega Landsyfirréttar x).

x) Þessa Tilskipun um dóma í hjónaskilnaðar-mál-um, segir Cancellibr. frá 15da Júnii 1799, hier í öllu gylda eiga. Aður hafði annað frá 9da Dec. 1786, boðið Sýslumönnum einum að dæma þau mál, en Kóngsbref frá 15da Febr. 1788, að

Afgætandi er samt: 1.) Ad fyrir Legords brot veitist ecki hjóna-skilnadur, hafi bædi þannig brotleg ordid, því (segir Hjónabands Ordinantzian frá 1582), „þeim ber saklausum af sama bresti vera, nefnilega: hór, sem um hann ákjærir maka sinn,“ og þykir ósvinn sókn hans ella; samt vyrdist sambúd lengri þvílikra verq þeim framar sérlegt straff, enn landi gagn. Þó ber þessa grein ecki svo ad skilja, ad þeim, sem ádur, máské fyrir nockrum árum edur í ødru hjónabandi vard hórsekur, leyfist ecki seinna skilnadur vid hórsekann, máské þá annann maka, heldur þá bædi um sama leiti og í sama hjónabandi brotleg verda. Ødlast þó sá persónan, sem sídan bætir rád sitt, skilnad vid hina, sem framvegis liggur í lausúng.

2.) Vilji svo til, ad villa valdi broti nockurs, t. d.: ef madur í myrkri eda dryckjuskap færi konu-villt og legdist med annari, sem þá yrdi til vid eda ginnti hann, en hann héldi sína konu vera, fremur hann þar med engann hór eda



Sýslumadur, Prófastur og 2 Prestar vid Undirrett skyldu þau dæma, en þeim málum skióta mega til Stiptamtmanns, Biskups og 2gja lærdra manna, og áttu Talsmenn fyrir þeim Retti, eptir Cancbr. frá 16da Okt. 1799, verdslegir ad vera. Þar hiá máttu Stiptamtmadur og Biskup láta Skilnadar-dómum frá Undirretti appellera.

lhsir áſetningi þeim, og á eckert ſtraff ſkilid. Eckí heldur verdur ſú perſóna hór-ſek og fyrirgjørir hjónabandi, ſem legords-ſek verdur med ødrum, eptir þad full líkindi eda fregnir, ſem á-reidanlegar vyrdtuſt, báruſt henni um fráfall maka ſins í fjarlægd, til dæmis: í ſtrídi, leid-ángri og lángferdum, ſvo ad henni fyrir þad ſkilnadur veitiſt, þvi þá ſektaſt hún um legord-id ſjálft, en ecki med hjónaſkilnadi, komi makí hennar lifandi heim; og bhdur ſvo N.L. 3—18 —15 No. 2, 5 ſamqvæmt Hjónabands Ordi-nantsíuni. Reglulegt hór-ſtraff hæfir ecki held-þeim, ſem fellur í legord, ádur enn ſkilnadar-dómur fellur í þeſſum tilfellum, eda þá maki er til lángframa yfirgefinn af hinum, heldur á-litiſt þad, ſem nú óſaknæmt lauſaleiks-brot, ept-ir konúngl. Urſkurdi frá 1810 (ſjá Colleg. Tíd-ſ. á. blſ. 557—8), og þvi vyrdiſt ſú þanninn brotlega perſóna, ad fengnum ſkilnadi, mega gipta ſig med þeirri, ſem hún fell med, hvad hórſekir aldrei mega án Konúngs leyfis. Um legords-brot adſkilinna hjóna frá bordi og ſæng, ſjá §. 4, og nær líkindi ſéu fyrir þau til ad vænta vægdar frá reglulegri hórſekt, ſem ann-ars má vidliggja þeirra broti.

3.) Þó konu naudgad verdi, bannar Hjónab. Ordin. manni hennar ſkilnad vid hana fyrir þad, þvi ſú, ſem fyrir órétti verdur, á ecki ad ſektaſt, heldur ſá, ſem hann fremur. Í þeſſu tilfelli verdur hún hverki ſkuldud fyrir ótrygd

nje lausúng í hjónabandi, því naudganin vitnar mót hverjutveggja.

4.) Meiníngar Lögspakra eru deildar um þad, hvert manni veitast megi hjónabands skilnadur vid konu, sem fædir barn svo skömmum tíma eptir brúdkaup þeirra, ad bóndi hennar vill ecki kannast vid faderni þess? verdur vid úrlausn þeirrar spurníngar markverdt þad álit greindra manna, um réttann og líklegann medgaungu tíma í sérhverju tilfelli, eptir útliti barnsins, sem eg í nidurlagi §. 28da hefi tilnefnt.

Hórdóms-straff vyrdist ad sönnu ecki hafa konu, sem lagdist med ödrum, ádur enn hún giptist, og vard þar vid þúngud; né heldur braut hún þar med hjónabands fastbundin sáttmál, sem þá ecki vóru til, en hafi hún samt fyrir hjónabandid leynt því ástandi sínu bóndaefni sitt, sem med henni vænti sér óspjalladrar meyar edur og skírlífrar eckju til konu, hefir hún dregid ad honum svik, og sé barnid undirkomid eptir fastmæli þeirra um tilkomanda hjónaband, einkum eptir þad lýsíngar höfust med þeim, þó hjónaband af einhverri orsök, t. d. sjúkdómi, lángferd og þesshattar, dregist hafi, hefir hún auglýst ótrygd og lausúng þá, sem hardt er ad binda saklausann mann vid æfilángt. Í þeim tilfellum vyrdist hann því, undir eins og hann sver fyrir faderni barnsins, eptir samburd þess útlits vid tímann frá fyrstu samförum eda sam-

egu þeirra, ega hjónabands skilnad vid hann tryggrofa ad fá, sem med framinni lausúng vid adra hefir hann táldregid, vilji hann ecki þetta fyrirgéfa, þar állkrar ótrygdar af henni framvegis vænta má, og þad af líkum ástædum, sem Hjónab. Ordin. 2. §. um orsakir til skilnadar trúlofadra leyfir þenna, reyniſt seinna ad heitmey hans hafi verid af ødrum kreinkt, hvert ord jafnvel þar skiljast má um annara samrædi med henni, ef fullsannast, þó barnegétnad ecki leidi þar af, og allteins heimfæraſt til lausúngar eckju, sem eptir Tilſk. frá 5ta Marz 1734, §. 5, á eins vel ad verja æru sína og góz, og krefja løg øllu meiri rádſtillingu hennar enn stúlkna. Bádar vyrdaſt samt med duldum lausúngar breſtum fyrir bónda-efni sínu á undan brúdkaupi ad hafa táldregid hann, vottad hverſu líttillar tryggdar eda rádſvinnu hann ſér vænta má af þvíllíkum maka, og ad þær ætlad hafi — þegar þúngadar vid ødrum giptaſt — ad ſlengja faderninu og barnfóſturs byrdinni uppá hann saklausann. Þó hann samt fyrirgéfi konu sinni þad brot, sem verda má Preſti einkum ſkadvænt (ſjá §. 13 og 25), og haldi fram hjónabandi, er honum ætíd rétt ad fráſverja ſér faderni þeſs barns, af hverju hann ecki er valdur, ſvo hann ecki ſvikſamlega játi annarlegu, eda láti þad leida til arfſvika vid ektabørn; vera samt fóſtri þeſs, ſem Stjúpi, og ſem búſins Forſjóri, Módurinnar vegna, annaſt uppeldi þeſs.

Hjónaſkilnadur, ſem orſakaſt af óleyfilegri giptingu í forbodna lidu, mót Tilſkip. frá 23ja Maji 1800, §. 1. eda ofbrádri giptingu med ødrum, þegar ektamaki yfirgéfur hinn og telſt dáinn, en vitjar ſeinna maka ſíns aptur og ſannar gott framferdi ſitt (Hjónab. Ordin. um Deſertionem), ellegar þá gipt perſóna vísvitandi giptir ſig annari ad hinni lifandi (§. 8. Hjónab. Ordin., um hmisleg tilfelli í hjónabandi), eda ſannaſt ad áforma hana, t. d.: þegar lætur til hennar lýſa med ſér eda falar og fær vígſlu leyfi, krefja ad ſønnu prívatſókn hlutadegenda til ſekta og ſkilnadar, en er ecki eginlega ad álíta ſem legords - brota heldur óløglegs hjónabands afleidíng og nefniſt því hér ad eins. Þar á mót býdur N.L. 3—18—16, 2 ſamqvæmt Hjónab. Ordin. frá 1582 §. 2. (um hjónabands tilfelli hmisleg), ad ſá, ſem trúlofadur er, en giptir ſig med annari, ſkuli yfirgéfa þá ſeinni og halda þeirri fyrri, ef hún girniſt, hafi hann nockud haft meira vid hana ad ſýſla, þ. e. med henni lagſt edur barn átt; ſú barneign á undan hjónabandi ónýtir því þetta og leidir ný rek til, ad madur, ſem giptiſt óléttri konu med ødrum óvitandi, megi fyrir þad vid hana ſkilnadar dóm fá. Einúngis má nú ſpurníng verda: hvert þeſsi réttur trúlofadra, — nefnilega af Preſtinum — ecki ſé nú undir lok lidinn, med útkomu Tilſkip. frá 4da Jan. 1799, ſem aftók trúlofanir? ad ſønnu aftók

hún einúngis Ceremoniu þá, kostnad og tímatøf vid handleggíngu Presta og kaupøl, en ecki trúlofunar rett, svo þegar lýsíngar fara fram, mættu þær vyrdast gylda mega, sem trúlofan, til alls réttar mót þeim, sem útaf bregda edur missjá sig med legordum, einkum líti menn til Kóngsbrs. frá 26ta Jan. 1802, sem leyfdi eckju, med hverri búid var ad lýsa til hjónabands, vegna brjálunar hennar manns-efnis, ad giptast ødrum, og til Cancellibr. frá 17da Júlii 1802, ad komi bádum hjónaefnum ecki saman um ad trúlofan þeirra skuli ógyld vera, beri þeim, er sig mishaldinn þar vid finnur, ad leita Sættanefndar adgjørda og Dómstólanna úrskurdar; sumt verdur líklega helzt skadabótar von af mis-høldnum hjónabands lofordum, þegar heitmeyar í trausti þeirra uppfyllíngar leidast af unnustum þeirra til legords b:ota og ecktabands loford ádur ákomin þanninn sannast, sem Tilskip. 5ta Marts 1734 áskilur.

Ad ákjærum um hór-brot fyrirgjøri saklaus ecktamadur mót brotlegri konu, ef hinn, eptir þad brot hennar verdur honum kunnugt, samreckir, þad mun þó einkum skiljast eiga, samlagar sig henni, sýnir Hjónab. Ordin. og NL. 3—18—15, 1. No. 4., nema hún falli svo á ny, en hann haldi sér þá frá henni, því þá má hann klaga og ødlast skilnadardóm, en hún ecki giptast í 3 ár, nema hún fái Kongs leyfi til hjónabands, og líkt því sem leg bjóda um hór-seka, sem

skildir eru úr hjónabandi, sanni lifnadar betrun sína; saklaus fráskilinn maki má þar á mót strax giptast. Sama leyfist og þeim, sem frèttir med sönnu fráveranda maka sinn fallid hafa í legord med annarlegri persónu, undir eins og þad sannad er; þó mun þar um fyrst þurfa skilnadardóm; líka til skilnadar fyrir afbrot þau, sem §. 29. nefnir, ad þurfi opinbera løgsókn til straffs, þegar þeir brotlegu (eptir §§. 19—26) verda nádadir.

Hversu sterkar røksemdir annars þurfi til hjónaskilnadar fyrir legords-mál sýnir §. 28.

§. 31.

Sókn mála, sem leidir af legordum, áhrærandi fyllingu eda brygdun hjónabands loforda, vidkémur einúngis þeim, sem rèttar tilkall í annarshvers tilliti hafa þykist. Hvad þid fyrra snertir, állitst sú heidvyrd mey edur eckja, þegar tvær gèta sannad gyld hjónabanda loford sèr af sama manni gèfin, hafa forrètt til þess uppfyllingar, sem þad fyrst var veitt, einkum ef hún, í trausti þess, verdur eptir á blètt vid unnusta sínum; sú saklausa persóna má þar á mót vera ektamála qvitt vid tryggrofa sinn, vilji hún ecki fyrirgèfa brot hans. Verdi bædi þau legords brotleg, vyrdast bædi og mega qvitt vera vid hjónabands-lofordid, hveruge fá hitt ákjært, en þó ecki mega ekta þá persónu, hvert þeirra fèll med. Merkilegt er og, ad hjóna-

bands-loforðs edur trúlofunar réttur til hjóna-
bands edur bóta vyrðist tapadur strax þeirri
persónu, sem ad órtygd med legordi verdur kunn,
t. d.: med samreckingu vid annarlega af ødru
kyni, þó hverki sanniſt þeirra samræði, né barn-
eign; þar á mót þarf þessi augljós ad verda
til legords sekta, edur annars straffs þess brotlega.

Sá, sem trúlofast tvimur og barnar þá
seinni, en ecki hina, fær hveruga ad ekta, en
straffast um legords-brot (Hjónab. Ordin. 3. og
4. §., um sérlegar greinir trúlofun vidvíkjandi.)

En — segja menn: trúlofanir eru nú af-
teknar, þess vegna ná hverki þessar sektir fyrir
barneignir eda legord framar til ótrygda
heimuglega trúlofadra. Þau loford mega þeir
nú ad ósekju rysta, en vid legordum þeirra
liggur ad eins regluleg legords-sekt. Eg vísa
til andsvars hér uppá í §. 30. bls. 103—104, og
bæti einúngis því vid, ad Tilskip. frá 4da Jan.
1799 lét adalsmanna og þeim jafnt privile-
geradra Rangs-persóna Já-ords rétt allann
óskerdtann í trúlofana stad, eptir Tilskip. frá
6ta Febr 1694. aptur stadfestri med annari frá
19da Febr. 1783 §. 7., og mun þó ecki hafa
ætlad þeim annann rétt um hjónabond ødrum
fremur, enn ad sieppa lýsingum, sem ádur.
Þær — þó Cerimoniu-formid eitt vid trúlofan-
ir sé aftekid — vyrdast því opinberlega full-sanna
hjóna-efnanna sáttmál um hjónabønd og vard-
veita bádum fornann rétt ad løgum, sem ád-

ur eptir fullgjørda trúlofun. Eg meina helzt hvad hjónabands-réttinn áhrærir hanninn, sem blf. 104—5 er ávikid, og hér í þessu riti, eptir eitli og tilgángi þess, hann rétt einkum, sem leidir af Legords-málum.

Sá helzti Réttur Qvenna, þeirra mála vegna, var jafnvel eptir Jónsb. Mannh. XXXI. Kap. hjónabands krafa til þess, er mey edur konu lá, svo framt frændur hennar vildu gjøra hana sæmilega úr gardi, med heimanfylgju vel sæmandi þeim, er vid skyldi taka, og bundu løg hann svo fast fyrir legordid til hjónabands, ad ef hann synjadi, átti sá þúngum bótum í rétt og rádspjøll ad sæta. Vor eldri Landsløg gjerdu ecki sérlegann mun á Rétti heidvyrdra Qvenna og þeirra, sem ádur høfdu í legord fallid, ef ecki Púrur vóru, eda konur, sem optar féllu í hórdóm; en Hjónab. Ordin. frá 1582, baud ecki einúngis ad sá, sem beiddi dóttur dánumanns, en sídan barnadi hana á undan trúlofun, edur fyrr enn hann fékk svar, skyldi fortakslaust ekta hana. Semu hjónabands von eda loford um þad vyrdist hún og ætlast til ákomid, þegar mey, heidurleg stúlka, edur eckja, barnast á undan trúlofun, þegar hún bydur þeim lýsta barnsfødur ad verjast faderni med eidi, eda bæta eptir løgum. Samqvæm hennar bodordum vóru NL. 6—13—4, 5., sem enn berlegar tiltóku, ad barnsmódirin verá ætti ádur óvantryktud, og tóku þá trúlegt, ad

hjónabands loford mundi leidt hafa þá konu í freistni, en barnsfadirinn hana afvega tæla, svo honum bæri ad ekta hána, eda gjalda henni heidurlegan heimanmund, í rádspjalla-bót, ef hann ecki fengi eda vildi hana ekta. Sá fyrri Artikuli, NB. 6 — 13 — 4 stendur enn í fullu gyldi, þvi — þó Ordinant. frá 1582 annars ecki berlega tiltaki rádspjalla bót, er þessi samqvæm ástædum greina hennar um Pikna-spillinger, og násvipudu bodordi um rádspjalla bót fyrir konu, lika áskilin í Mannh. XXXI. Kap. en NL. 6—13—5 bodord hefir Tilsk. frá 5ta Marts 1734, hér lögleidd med Köngsbr. frá 14da Júnii 1740, stórum takmarkad í tilliti til hjónabands réttar þess, sem sú grein og eldri lög gáfu heidvyrdum meyum og konum gégn þeim, sem þær féllu med. Reynslan hafdi nefnilega frædt Leggjafarann um, ad lauslátar stúlkur og eckjur leiddu optar edur eins opt karlmenn í freistni til legords-brota, eins og þessir þær, einkum þá, sem þær eigulega fundu eda efnuga nóg, ef rádahagur betri tækist ecki med þeim, til ad gjøra þær vel út gardi; vildi hann því fæcka þanninn undirkomnum, opt ógæfulegum hjónabendum. Med nefndri Tilsk. baud hann því: ad heidvyrd stúlka, sem bæri fyrir hjónabands loford, en ádur enn hún leglega trúlofadist eda Jáord til hjónabands gaf (sjá blf. 106 um þetta), félli í trausti þessa í legord, skuli engann rétt til hjónabands hafa med

Þeim hún fellur með, nema hún løglega sanni skriflegt eda munnlegt henni gefid þad loford hans, ádur enn hann med henni lagdist; ef skriflegt, þá undirskrifad og innsiglad af honum og 2ur vottum; en ef munnlegt, þá ad þetta sé henni gefid í 2gja eda fleiri alþecktra bánumanna vidurvist, sem vitni þar um innan árs og dags, en seinna leyfist þad ecki (§. 1 — 4). Þó trúlofanir opinberar séu afteknar, mega birjadar eda framfarnar lýsíngar til hjónabands enn þá sama gylda, og hafi 2 bánumenn verid vid, sied eda heyrt hjónabands lofordid, þegar skrásett var, en þad ecki undirskrifad til vitnis, má þeirra vitnisburdur í tíma þar um jafngyldur metast, sem um munnlegt loford, og eidur sá, sem Tilskip §. 2. skyldar þann lýsta barnsfødur til ad vinna, ad hann ecki hafi barnad stúlkuna eptir ákomid hjónabands loford, en ella til ad ekta hana, vyrdist þá engannveginn honum leyfandi, mót NL. 1—13—1 og 1—14—3. Hafi hún þanninn gyld vitni til lofordsins, eda sanni hans reglulegt bónord til hennar á undan framkomid, edur um hana til réttra løgverjara, en samlegu þeirra í samþyckis trausti eda ad því fengnu sídar framfarid hafa, skyldast barnsfadirinn vafalaust til ad ekta hana, eins þó hana bresti gyld røk eda vitni þar um, gyldir sú lýsing hennar einnar svo mikid, ad hann skyldast til

þess,

þess, hiki hann við að vinna áðursagðanu eið. Þó undanskiljast þessi tilfelli:

1) Að karlmaðurinn ecki hafi fullmyndugur verið, þegar hann hjónabands loforðið gaf. Tilskip. §. 4 segir 25 ára, því svo telst myndugur aldur, eptir D. og N.L., en—þar karlmaður hjá oss er fullmyndugur 20 ára (Framsb. IV. Kap.), eins til giptinga og trúlofana (sjá og Cancellibr. 1ta Febr. 1820 í s. á. Alþósti bls. 155), er hjónabands loforð af svo gömlum hér og fullmyndugum jafngyldt, en ecki af yngri karlmanni, enn 20 ára.

2.) Eckja, þó barnist og véri fyrir áður áskomið hjónabands loforð þess, sem hún lýsir Föður, hefir samt fyrirgjört rétti öllum til hjónabands með honum, nema sá sé Lögverjari hefiar, því þessi einn álitst yfirráð svo mikil öðrum fremur hafi hafa yfir Eckju þeirri, að hún sleckast hafi til lausúngar með honum, og skyldast hann því til að ekta hana, ef hún svo vill, hvert sem nockurt eður ecke:t loforð þar um var áður ákomið. Við aðra álítst hún myndug kona, jafnt skyld og fær til að verja eins æru sína og eigur; þess vegna á hún að hafa skömm sína og skaða svo búin, láti hún sig barna á undan trúlofun, (nú lýsingum), eða Já=orði, hvar lög það jafngyldt meta, hver helzt hjónabands loforð, sem henni kynnu veitt vera. Um sekt Lögverjara hér, er svo sinána Eckjur, hverra sóma og gagn þeir vernda ega, vísa eg til §. 27. bls. 82—83.

3.) Láti stúlka þann eptirá barna sig, sem beiddi hennar til konu, en fékk afsvar foreldra eda giptíngarmanna þar um, fyrirgjörir hún hjónabands-rétti med honum, en krefji hún eda hinir fyrir hennar hønd seinna, ad hannn ekti hana, en hann þá afþacki, skyldast hann til ad gefa henni heidurlegann heimanmund eptir efnum sinum í rádspjallabót §. 6.

4.) Stúlka edur kona, sem er hjá og verdur legords-sek med húsbónda sinum, Syni hans, eda þeim, hann tekid hefir í hús sitt, sem Son, Frænda edur Mág, tapar þar med hjónabands-rétti med þeim brotlega, því hún álítst ad hafa ginnt hann til samlegu, til þess ad veida hann sér til manns-efnis; hast til þess, sem hjú, betri hentugleika; verid því sólki þó um meiri hollustu skyld, en brotid þá skyldu; býdur því Tilskip. §. 7., ad hún tapad hafi hjónabands-rétti og von med þessum, hvern hún ginnti og straffist ad auki fyrir opinbera ótrú. Þad verdur samt ad skiljast svo, ad hún fyrir þad verdi ræk úr vist; éhollusta sú er því orsøkin til hennar hjónabands-réttar missirs, vilji barnsfadirinn bryggda heit sín vid hana, en ecki uppheſdar munur þeirra, sem lítid edur eckert fær þar ad unnid.

5.) Þó kona (mey edur eckja), beri fyrir hjónabands loford ákomid med þeim, sem eptirá barnar hana, vegur þad alls eckert til þess réttar, nema hún ádur vel ryktud sé ad skir-

lísi, eda, sé esi þar á, sanni þad allstadar ad, hvar hún frá Ungdœmi dvaldi, med vitnisburdum góðra manna (§. 8.). En miskynnt í því tilliti er sérhver, sem utan hjónabands átt hefir barn, nema ef værí med unnusta sínum, eptir lýsinga birjun edur ákomid löglegt Já-ord, hvar þettad er jafngyldt trúlofun, og sá dæi edur fatladist frá hjónabandi fyrir festar.

6.) Enn segir þessi Tilskip. þá konu fyrirgjört hafa hjónabands tilkalli, þó loford þar um fyrirberi, sem vid barn-burd eda fyrir Prestinum lýsir rángann barns-födur (§. 9.), til dæmis: ef fleiri lýsir enn einn, því þá er hún ómerkari lausakona haldin. En — þó hún þar med fyrirgjöri hjónabands-rétti med þeim lýsta, vilji hann ecki útí þad leggja med henni, friar þessi breslur hennar hann samt ecki frá ad hreinsa sig af faderninu med eidi, eda álltast ella fadir barnsins (sjá framar hér um §. 34. No.3).

Ad þeim, sem naudgadi konu, en edladist nád, beri ad ekta hana, séu bædi ógipt, nefndi eg á bls. 70 og á bls. 74, ad sama er um þann, sem rænir konu burt, ef hann þad fær.

§. 32.

Þeir. sem urdu legords-sekir med Stúlkum eda Eckju, áttu, eptir eldri Landslögum vorum líkt og annara Nordurlanda, ad bæta þeim Rett og Rádspjöll, en Rett fyrir legord med giptum, (Jónsb. Mh. II., XXVIII.,

XXXI. Kap.; Qvennag. V. Kap.) Réttur kalladist bót sú, sem Erfingjar, í karl legg þó einúngis, eda Giptingamenn, nánustu Frændur og Forvérjarar, Festarmadur og Ektamadur tóku fyrir vanvyrdu þá, er húsi þeirra og ætt var med því legordi veitt, og var sú bót metin eptir stétt eda ásigkomúlagi þeirrar vanvyrdtu konu, á stundum eptir manngyldi þess brotlega karlmanns, sjá Mannh. II. og XXXI. Kap., málavextum og gódra manna áliti. Þanninn guldust bónda þeirrar konu, á hverri hann stód annann mann, full manngjøld þessa, en hálf fyrir Módur, Dóttur eda Systur í sama tilfelli, ef ógiptar vóru; annars tóku bændur þeirra út þann Rétt (sjá bls. 84). Sá minnsti Réttur fyrir legord á ríctústu Frændkonu, sem nááungar ecki vildu leggja neina rækt á, med því, ad gjøra henni sómalega heimanfylgju, svó ad hún fengi sæmilega giptst, vóru 12 aurar eda $1\frac{1}{2}$ mørk, þ. e. 72 áln., og nefndist Lagaréttur; en Réttur þeirra, sem rækt var af Frændum vid løgd, med heidurlegrar heimanfylgju útlátum áttu 12 menn ad meta. Jafnvel þær brotlegu konur sjálfar sektudust til Forverjara sinna fyrir brotid. Gipt kona, sem lagdist med ødrum, misti til bónda síns Tilgjøf sína, tæki hann hana ecki aptur (Qvennag. V. Kap.), en dóttir, sem ógipt vard legords-sek í Fødurs- eda Bródurs gardi, vard arflaus eptir Foreldri, nema Fadir, eda Bród-

ir (væri Fadir ecki til), vægdu til. (Erfdat. I. Kap.). Rádspjøll vóru bætur konum þeim ætladar til heimanfylgju af þeim, sem med þeim fèll, til ad bæta med áfallinn galla þeirra til gódrar rádstøfunar, svo heidurlega giptst fengju. Hverttveggja burtfèll, ef þau brotlegu ektudust, en vildi annadhvert þeirra þad ecki, eda giptingamenn ecki leyfdu þad, vóru bædi Réttur og rádspjøll af legords-brotlegum karlmanni krafin. Festarmadur tók hverttveggja fyrir heitmey sína, legdist annar med henni eptir trúlofun, en giptingamadur Réttinn, ef ádur vildi til, eda Festarmadur ecki giptist henni sídar, og þá líka rádspjalla-bætur, en þessar einar fèck þá Festarmadur, ef hann samt giptist henni.

Þennann Rétt fyrir legord Qvenna og rádspjøll til bóta, tjádi eg bls. 108 Løggjafarann fundid hafa af margri konu vera misbrúkadann, og hann jafnvel hafa leidt nockrar til ad ginna mannsefni til lausúngar vid sig, í von um þar af leidandi hjónaband eda rádspjallabót, sem ríkkadi margra fátækra hag, og því med Tilskip. frá 5ta Martz. 1734 y) takmarkad mjeg

y) Fyrisøgn Kóngsbrefs frá 14da Júnii 1740, sem løgleiddi hjer á landi þessa Tilskipun, lýsir best hvílíku tilefni þess, einkum gaf þad nýf llinn Undirrettar dómur Sýslumanns í Dala Sýslu O. D. sem skyldadi M. Þ., sem barnad hafdi Þr dóttur Sýslumanns B. P. til 16 rdla útláta, í tvennar

þenna Rètt, svo ad sídan þeim einum meyum ber rádspjalla-bót, hverra rykti ádur er af lausúng ógallad, en eckju aldrei, nema hún barnist eptir ákomid hjónabands loford af Løgverjara sínum; því af ødrum á hún ad hafa skada sinn-svobúinn, eins allar ad lausúng ádur kunnar konur, og verdur í stuttu máli ad segja, nú engin spurníng um rádspjalla-bót fyrir legord, hvar enginn rèttur til heitins hjónabands fullnustu er, eptir framantøldu í §. 31, nema í því þar í Nó. 3. nefnda tilfelli, og þá naudgan eda rán-qvenna framfer (sjá bls. 70—71, 74—75); en þar giptri konu bera allteins bætur fyrir naudgunar ofriki, og jafnvel giptur Løgverjari Eckju edur ómyndugrar stúlku, eptir NL. 6—13—2 (þó sú grein ecki gyldi hjá oss), skyldast til ad gjalda þvílíkri, ef hana barnar, hálfa búslód sína í bætur, verdur spurníng, hvert giptir ega enga rádspjallabót óspjølludum meyum, sem þeir leggjast med, allteins ad gjalda? en þad tel eg fortekid hreint, med Tilskipun frá 5ta Martz 1734, því hvar engin hjónabands von eda rèttur er, eptir því í §. 31. framtalda, er ecki heldur sú bóta-



fullrèttis bætur, en í rádspjalla til 240 rdla bóta í fasteign, en 80 rdla í lausafje, ad gjaldast innan 8 vikna, undir útlegdar sekt. Løgmadur dæmdi henni einúngis heidurlega heimanfylgju.

vorr eda réttur. Ad NL I tilnefndri greiń 6—13—2 sektar Forverjara eckju eda ómyndugrar stúlku med bótum til hennar, er vegna skammarlegrar misbrúkunar hans yfirráda og umboðs, en nær ecki til annara.

Ad sá, sem hikar vid ad vinna eid eptir einberri lysingu heidvyrdrar stúlku um hjónabands loford henni gefid af barnsfødur hennar, eda Eckju uppá Løgverjara sinn, skyldist til ad ekta hana eda gjalda henni heidurlega heimanfylgju, er vafalaust eptir ádursøgdu bls. 114—15. En — ad rádspjalla-bætur ecki nái framar til brygdadra heimuglegra hjónabands loforda, sem ecki leidt hafa þær svo trúlofudu persónur til legords-brota saman, vyrdist þar á mót afleidíng Tilskip. frá 5ta Marts 1734, þó sannsyni og almennur réttur mæli fram med því, og ymsir Hæstaréttar dómar, einkum í eldri tídum z), styrki þá meiníngu, hver samt ecki vidkémur mínu efni framar ad

z) Med Amtmanni Führmanni var Appollónia Schwartzkopf í 14 ár heimuglega trúlofud, en hann dróg ad fullkomna hjónaband med henni. Hún stefndi hönum þess vegna þar um til Hæstarettar, sem 1719 skyldadi Führmann til ad ekta hana ; en þar hann samt hlidradi sér hjá því, útgeck Kóngsbref til Stiptamtmanns Rabens, þann 24da Febr. 1721, ad Führmann skyldi annadhvert hlýdnast Hæstarettar dómi, eda gjalda Appollóniu árlega helfíng launa sinna. Hún deydi — ad menn søgdu — af eitri snøgglega 1724.

útlista, sem einúngis er: réttur eda sekt, sem leidir af legords málum.

Samt er ein sérleg tegund rádspjalla-bóta til, sem leidir af fyrirbornu legordi, þó hverki barneign né hjónabands loford tilkomi. Jónsb. Mannh. XXXI Kap tiltekur hana berlega og áskilur sama Rétt til hennar, þess vegna allt eins hvad upphæd þeirrar bótar snertir, eins og fyrir barneign med Konu. Sú bót nefnist þar Snápsgjöld, og ber konu, sem einhverr segir sig lagst hafa med, en fær ecki sannad, þegar hún þvernejtar og færist undan þeim áburdi. Fyrir sama tilfelli gjøra NL. rád 1 6—13—7 og bjódur, ad sá skuli vera ærulaus, sem þann framburd fær ecki sannad, sem Lygari þvílíks óhródurs um heidvyrda Mey, Konu edur Eckju; en Mh. XXXI. Kap. bydur álikt, þar sem hann tiltekur, ad sá skuli heita Snápur æ sídan, sem er gickur, eda madur ad verri. Þessi sekt og rádspjalla-bót er því sanngjarnari, sem sá, er framber ærukreinkjandi óhródur um annann, hvern hann ecki sannad fær, á ad løgum sjálfur ærutjón úr bytum ad bera; einkum er Rádspjalla-bot hér réttvís, þar margur gickur eda brádvandur bidill, sem hryggbrot hjá heidvyrdri mey edur konu fær, kann med þvílíkum lognum áburdi ad vilja spilla rádi og gæfu hennar, og því rádast í ad qveikja þann óhródur til hefndar vid saklausa; en — þegar hann segir sig sjálfann med henni legords-sekann,

ber honum því framar bætur þær ad lúka, sem af legordi fullkomnudu og sønnudu annars leida mættu, en fyrir lýgina Snápur, (Glópur eda Narri), úr því ad nefnast.

Ad kona, sem lýsir á mann legordi med sér, en fær þad ecki sannad med røkum eda med barns-þúnga, og verdi ærulaus fyrir þann framburd, býdur NL. 6 — 13 — 6, og sama vyrdist eins um konu og mann í tilliti til ærutjóns þar fyrir hjá oss gylda ega, þó Mannh. XXXI. Kap. tiltaki þad ecki.

Upphæd rádspjalla béta hver sanngjørnust sé, ber Dómaranum ad ágvarda. Alitleg á hún ad vera, til ad verda, eptir legum, heidurleg heimanfylgja og fá bætt úr heidvyrdrar meyu (eda eckju, sem Løgverjari svo vandvirdir) spilltum rádahag. Tilskipan frá 5ta Martz 1734, § 6, segir hún vera skuli eptir efnum þess brotlega karlmanns og óvidkomandi manna áliti; líka vyrdist tillit bera stéttar beggja, einkum konunnar, sem fyrir þeim vansa og tryggrofum vard, og til þess gæfu-missirs henni þar med orsakast. Ef hún ad legum var borin til hjóna-bands med barnsfødurnum, og sem kona, til hálfra eigna hans, vyrdist hálfur ardur þeirra árlega máské henni rétt valinn. Þó dæma Dómstólar nú ecki framar svo, heldur álitlegar rádspjalla-bætur einusinni.

Vidvíkjandi Rétti fyrir legorda-gøllun qvenna, eptir eldri legum og vorri Jónsbók

(sjá bls. 113—14), sem þau løg ætludu nánustu frændum þeirra ad taka bætur fyrir, er nú fátt framar ad segja, þvi hann má telja eldúngis undir lok lidinn med innleidslu Tilskipunar frá 5ta Marz 1734, nema hvar bóndi enn þá þyggja mætti bætur þær, sem fyrir rán eda naudgun konu h:ns koma ega (sjá bls. 70, 74), enda fyriverda sig flestir ad krefja þesskonar leigu eda bætur, sem fyrir fénad, eptir frændkonur sinar, þó falli, bera þvi heldur harm sinn í hljódi og taka því mótlæti med stedduglyndi, heldur enn til einkis, og nágyldandi løgum gagnstædt, ad dreifa ættar sinnar óheill og vansa vídt, út eda leggja þvílikann med ágengni um fullrettis bætur fyrir legord, til Dómstóla, hvadan, litils endurgjalds nú verdur framar ad vænta, þar jafnvóvist þykir hvert þeirra brotlegu hefir hittginni eda tælt til laúsúngar-breiskleika.

§. 33.

Ad legorda-brot á stundum gefa megi réttvísa orsøk til burtvisunar qvenna úr vistum, tel eg vafalaust: 1.) í því á bls. 111 No. 4. nefnda tilfelli, beint eptir Tilskip. frá 5ta Marz 1734 §. 7. 2.) Þegar 2 persónur á sama bæ, eda í sømu sókn verda legords-brotlegar saman, bydur Tilskip. frá 3ja Júnii 1746 í §. 12. Sýslumanni undir 8 rdla sektir í fyrsta, en Embættis tøpun í annad sinn, strax ad stía þeim brotlegu sundur, og má þá húsbónda

þeirra brotlegu hjúa, ef bædi eru hjá, verda skadminna ad kona sú vîki, enn karlmadur, hverr þar hjá — ef vid jørd eda bú er bundinn, sérlegt handverk eda þjónustu, eda giptur — sídur má skyldast til ad vîkja.

Þó þessi adskilnadur legords-brotlegra, sem fyrir hann opt mega vistum og næringar-vegi tapa, sé á stundum miklu þýngra straff, enn nockur legords sekt var, ádur enn hún á seinni tímum var linud, og þó þessi harka vyrd-ast megi ónaudsynleg fyrir Island eitt, eda midur sanngjørn hér, fram yfir jafn-brotlega. Í Danaveldi annarsstadar, hvers leg ecki þeckja þetta þýngsla straff fyrir legord, nema mein-bugabrota einna, eptir D. og N. L. 6—13—13, telur samt Cancellibr. frá 13da Okt. 1787 nefnt lagabod enn ad vera brasfad og gyldandi hjá oss, þó Kóngsbr. frá 15da Marts 1789 hafi áqvardad lausn frá Sýslu útlegd fyrir legord med bótum; því fær nýtt Cancelli for-bod frá 19da Aug. 1820 (sjá Alpóst s. á. bls. 172), mót burtvísun blettra qvenna úr vist-um eda hreppum, ecki þessum skýlausu laga-bodum hneckt. 3) Vyrdist þad náttúrlega leida af samnings-rétti milli húsbænda og hjúa um gylda vinnuvist, ad sú þjónustu-kona, sem dreg-ur svik ad húsbónda sínum, honum óvitandi, med því ad koma ólétt í vist til hans og óverk-fær þess vegna, eda verda þad í vistinni, egi sjálf fyrir sitt legords-brot ad lída, en ecki

feklausir húsbændur eda hreppar vid þeirra lausáng, svo burtvísan þvílikra sé náttúrleg afleidíng hinnar og samqvæm Húsaga Tilskip. frá 3ja Júníi 1746 í §. 21. og í §. 25. tilnefndum løglegum burtvísunar orsøkum hjúa; allteins Rl. 3—21—1 og ástædum Plak. 3ja Dec. 1755, §. 8, 16 og 22, hvar lasleiki og óstuktugt líferni hjúa telst med løglegum burtvísunar orsøkum, og þvílíka mun Tilskip. fyrir Danmørk frá 25ta Marts 1791, í §. 9—10 einninn innibinda; þó vyrdist húsbóndi þeim burtvísunar rétti vegna þeirrar orsakar mega fyrirgjøra med vísvitandi haldi óléttra vistarqvenna um lengri tíma, enn vor Pólti-løg þar um áskilja; en — í edru tilliti hefi eg (í Klp. 1820 nótu til blś. 172) haldid óljést af løgum, hversu burtvísan óléttra vinnu qvenna úr vistum eda hreppum, og nær, sektast egi; hvar um, ef átelja skal, gløggvari Lagasetníngu enn þá mun vanta.

## §. 34.

Þó hinsar fleiri séu afleidíngar Legordsbrota, vil eg samt í þessari grein minnast á nockrar sérlegar, og þá

1.) Svo sem legordum vidkomandi, það ódædi. sém Qvennag. I. Kap. gjørir ráð fyrir: ad konur ljáist til ad locka børn manna eda frændkonur til saurlífis, eda dætur til giptínga, mót réttra frænda og giptínga-manna

rádi; og tiltekur fyrir slíkt síbætur, en ad sú svo bjargarlega, sem ecki hefir peninga til, sái refsíngu eptir dómi. Dæmi um fyrra hlut þessarar greinar mun, sem vel er, í landi vóru nú um stundir, ef nockurntíma, óheyrt; hvad verda kann, ef Kaupstadir fjölbyggjast og sidir stórnar þar spillast med framtíd, kénnir þessi best. Ecki heldur er enn þerf á ad sakna straff-laga ákvordunar fyrir land vort í Logbók þess fyrir hóruhúsa hald eda adra lockun heidvyrdra qvenna til þess líffernis.

2.) Af legords-brotum leidir lýsíngu óekta barna Fedra. Ljósmædrum ber máské ad sönnu um þessara barna Faderni lauslega ad spyrja barnsmædur, þegar þau børn fædast,; þó fyrirbýdur þeim Cancelli Umburdarbr. frá 23ja Maji 1820 (sjá Klpóst s. á. bls. 169), ad grenslast eptir því, medan á fædíngarhrídum qvenna stendur; þess vegna uns barn alfædt er, og eins ad rengja lýsíngu þeirra, þó rángann barnsfødur haldi tilnefndann, og þanninn, medan þær hrídir yfirstanda, ad kúga fram lýsíngu þess rétta (hvad þeim alls eckert vidkémur), til ad opinbera þad sídan Prestum, Foreldrum, ættíngjum og ødrum, jafnvel ektamøkum barnsmædra, sem þær dirfst hafi um Faderni barna ad yfirheyra, þó þeim eda ødrum grunsamt vera kynni, ad annar enn bóndi giptrar konu mundi þar Fadir vera. Ad sønnu býdur Ritualid bls. 112—13 þeim, þegar ó-

ekta barn fædist, ad gefa Presti þad til vitundar, en eckert framar, og bannar þeim þar hjá í 9du grein, blf. 115, ad opinbera ødrum hreinsleika eda vanvyrdu nockurrar konu, en skipar þeim þagmælskum ad vera. Þó einhver kona því í barnsneyd trydi nærkonu fyrir einhverju í þeim efnum, framar enn vid Faðernis lysingu framkémur, byður þetta Cancellíbréf, ad Ljósmædur fyrir sérhverja misbrúkun þess trúnadar trausts, sem barns sængurkonur þeim veita í slíkum efnum, straffist eptir Reglug. fyrir Ljósmædur frá 21 Nóv. §. 42. med missir þeirra ljósmædra brauds. Ecki heldur vidkémur nockrum Presti ad spyrja nockra gipta konu um Faderni annar barns, því sá álitst þess Fadir, sem giptur er þeirri konu, á medan hann því Faderni ecki sjálfur mótmælir, og vidkémur þá Dómaranum, en ecki Presti um slík mál framar ad grenslast og sýsla (sjá Cancellibr. 28da Okt. 1786 í Fogtm. Alphab. Reg. og Cancellibr. 21ta Júlii 1787). En um óekta barna Foreldra ega Prestar ad spyrja, þegar þeir þau børn skíra og skrifa nøfn beggja inn í Embættisbók sína, en sídan tilkynna þau og brotid vidkomanda Yfirvaldi (Tilskip. 3ja Júnii 1746 §. 11. Cancellibr. 29da Októbr. 1768).

3) Af Fadernis lýsingu óekta barna leidir aptur fedrum þeirra eda útvegun løglegra og vottanlegra skilríkja um, hvert sá lýsti barns-

fadir veitir faderni vidgaungu eda ecki; hvert tveggja tilkynni Prestur Dómaranum, sem í neitunar tilfelli strax umannast endalok þeirra mála med Réttarhaldi þar um, sem Cancbr. frá 1ta Febr. 1794 býdur þá strax ad höfda, þanninn, sem eg ádur hefi ávísad í mínu Sætta Handqveri 1819, bls. 37, 39, 56 og 87, þó ætíd eptir undangengna Sætta tilraun, og vil eg því hér ecki framar itreka hid sama. En þess hlýdir vel hér ad géta, ad Köngsbr. frá 3ota Nóv. 1759 fyrirskipar: ad þó barnsmódir lýsi fleiri barnsfedur enn einn í senn, og viti ecki hverr þessara sé hinn rètti, sèu allir þeir lýstu skyldir, ef þeir Faderninu neita, ad hreinsa sig frá því med eidi, en þángad til álitur Cancbr. frá 29da Okt. 1768 sá hvern lýstann ad vera réttann barnsfödur, viti hann sig ecki svo frían frá samlegu med þeirri konu á þeim tíma, ad hans faderni vyrdist mögulegt eda líklegt, og hann því ecki vogi þann eid ad vinna: „ad ecki hafi „hann þad samrædi vid barns-módurina „haft, ef hverju barn þad, hvers Faderni „honum þá eignad er, kuñi gétid ad vera.“ Annars ega allir lýstir ad vera þess barns Fedur, sem líkindi nockur eru um, í tilliti til medgaungu-tímans (sjá bls. 90—91), og allir til legorðs sekta fallnir, hvar þær nú framar vid ega. Þó er ad ráda af Cancellíbr. frá 15da Marz 1791, ad einúngis lýsíngu barns-

fedra, sem Mædur í ita sinni gjøra, sé að marka, hversu marga, sem þær þá tilnefni, en ecki þá, sem þær sceinna eða eptirá lýsa. Að barns-mædur, eins og margir lýstir barnsfedur krefja, þegar þeir ecki voga sjálfir eið að vinna, skyldist til að sverja þá vera sanna fedur, en fyrir allt samræði með ødrum, er ólegmætt, og í þeim málum ecki fullur réttur til; þó heimilar þann eið NL. 1—14—7, ef Móðir sjálf vill góðmótlega og óneydd hann vinna. Af þessu flýtur nú enn:

4.) Að allir lýstir Fedur óekta barna, hvert sem einn eða fleiri eru, og sem ecki sverja fyrir Barnsfadernið eða friast við það, ega samegínlega þess uppeldi að kosta og umannast, þanninn, sem eg í Handbók minni fyrir hvern mann, útkominni 1812 á bls. 112—116 hefi talið legskipað. hvað eg því met óþarfa hér að itreka, en nóg að vísa þar til þess, en hér til þessa Rits bls 46 —7 og míns Sætta Handqvers frá 1819, bls. 35—36, 49—50, 84—85, 138—139 (með nótum þar). Því eina skal eg hér við bæta, til réttlætingar sannsýnni venju, sem eg í Handbókinni á bls. 113 nefndi almenna, að gjøra Fedrum óekta barna tvøfaldt útsvar til þeirra barna uppheldis við Mædranna, að Réttarbót Eiríks Konúngs frá 1293 býdur „Fødur að framfæra børn sín að tveim hlutum, en konu að þridjúngi, ef ecki er félag með þeim; en ef hjón (gipt eða

bgipt er sama), egn á verkum sinum fram ad færa børn sin, þá skal þad meira tilleggja, sem handmegn hesir meira;" en þessi ússvars skylda eptir Islands sérlegu løgum vyrdist hér ecki umbreytt vera med þeirri almennu Tilskipun fyrir Danaveldi, frá 14da Okt 1763, hverki hvad upphæd þess snertir né útsvars-tímann, fram yfir 10 vetra aldur, uns børn, ad vorum løgum teljast matvinnungar, nefnilega: 16 vetra (Frsb. I. Kap. og Rèttarb. Eiriks Konúngs). Eika ber Fødur ócktá barns sem framfæris skyldá þess hér til matvinnungs aldurs, þó Módirinn ødrum giptist (Cancbr. 21ta Apr. 1798), og þá þrot eda daudi annars hvers foreldra bannar þvi fyrir uppfóstri þeirra barna ad standa, ber þvi efnugra eda eptirlifanda einu ad bera þá byrdi, medan megnar.

5.) Þá er enn sú afleidíng legords-mála, ad Fadir fyrrtaldra barna skyldast til „ad inna þeim fyrir kost, er ólètta konu af hans vøldum ennast, medan hún er svo vanfær, og þar hjá fyrir barnfóstur; eda erfingi hans, ef Fadir deyr, af ié þessa, þó ecki framar, enn hinn erfir" (Mannh. XXXI. Kap.).

6) Þó sa dæmist Snápur (edur minni madur), eins og eg umgat bls. 117-18, sem lýsir á sig samrædi med konu, en fær þad ecki med rekum sannad, og líkindi þvi sèu til, ad kona, sem lýsir þann barnsfødur, sem sver á eptir fyrir þad brot og Fadernt, yrdi fyrir logna

lýsíngu ærufkérdt, álíkt því, sem 6—13—6 tiltekur, fundu þó vorir Løggjafarar þetta straff ecki Konum þeim hæfa, og ísjárverdt, ad skylda þær til Fadernis lýsíngar, um hverrar sanníndi sjaldan verda løglegar rokfemdir fáanlegar, ef þær vid neitun þess, og — máské ískyggilega eida Barnsfedra, verda skyldu ærulausar. Hvert heldur þeirra rykti er ádur ógallad edur ecki, er skyldan sem fyrir alla lýsta, annadhvert ad kannast vid Fadernid, edur hreinsa sig af því med eidi, og naudsyn til ad fedra þau børn, eins þó Kona, ádur optar brotleg, lýsi fleiri fedur í einu. Ad sønnu ætladist Kóngsbréf frá 16da Decembr, 1625 til, ad Konur þær, sem ecki vildu neinn Fødur lýsa, þó ítarlega væri á þær þar um gengid, sendar yrdu út til Keupmannahafnar, til ad straffast þar, en hversu, er ecki tiltekid a), og Kóngsbréf frá 17da Decembr. 1734, ad Konur, sem lýstu þá barnsfedur, sem sværu sídan

a) Arid 1624 tók Oddur Biskup Einarsson Alþíngis dóm Presta og Leikmanna um þad, ad konur, sem engann fødur óekta barna lýsa vildu, skyldu þrisvar áminnast af Prestinum ad lýsa réttann barnsfødur; gegndu þær því ecki innann missiris tíma, áttu þær ad bannfærast; en ef þad ecki dygdi, skyldi hver þvílík bæta 3 merkum og vera útlæg úr Landsfjórdúngi, og skorti hana sektagjald, átti hún ad hýdast eins og Yfirvaldid lysti til.

fyrir Fadernid, skyldu opinberlega leysast, eil þó nefna mega þann lýsta fyrir Søfnudinum; samt útgéck seinna Kóngsbréf þann 19da Dec. 1738, sem band, ad ócekta barna mædur, þó lýsir Fedur sværu fyrir fadernid, friar vera skyldu fyrir frekari ákjærum, nema ef þær sannfærdust um logna lýsingu, þvi þá bæri þær fyrir hana eptir legum ad straffa; líklega (sem Snápa), med ærutjóni, samqvæmt Nb. XXXI. Kap. og NL. 6—13—6 b).

7.) Loksins vil eg í geistlegra tilliti minnast þéss: ad þó Prestur missi Kjól og Kall fyrir legords-brot, hvert heldur med hór edur lausaleik, heldur hans saklausa Eckja øllum þeim rétti, sem Presta-eckjum veittur er, samqvæmt hingad sendu Canceiíibr. til Stiptamtmanns og Biskups, frá 2rum Maji 1778 þar um, og

8) Ad í þeirra og annara tilliti er þad audrádin afleiding Kóngsbréfa frá 2rum Apr. 1762 og 25ta Nóv. 1791, sem budu øllu umtali legords-sektar þeirra ad sleppa, sem giptust ádur enn barn fæddist þeim saman, ad þó þetta verdi strax ad lidnu brúdkaupi þeirra, ber Konur þær, sem adrar Ekta-konur af

b) Þetta Kóngsbref sýnir: ad lagalaust var hier ádur í vana komid, ad kúga barnsmædur þær med kagstryking til rettari lýsinga, þegar lýstur fadir sór, eda med útsendingu til Khafnar, og var sú hegning grimm og ísjárverd; en gagnsiædum anda lýsir Cancbr. frá 21ta Maji 1791.

Prestum í kirkjur ad innleida, med venjuleg- um kirkjusidum, eptir þann barnburd, hvad hlngad gefid merkilegt Köngsbréf frá 3ja Júnii 1763, berlega fyrirskipar c).

9.) Þad mun víst þykja efamál, hverja af- leidingu legords-brot Foreldra, í hvísum til- fellum hafa megi fyrir þeirra børn, einkum í tilliti til erfda-réttar, eda nær þau beri, sem ektaborin edur ecki ad öllu, hvar af þeirra margvíslegann rétt leida kann eda réttar töp- un. Lausaleiks og hórgetinna barna erfda- rétt hafa NL. 5—2—71 ͵ 74 ágvardad, en hvert børn borin af foreldri óløglega tvígiptu tveimur undir eins, sem bls. 75—76 nefna, eda børn í blódskøm og meinum alin, megi sem ekta álitast, og ektabarna réttar njóta, er vafasamara. Í fyrra tilfellinu halda børn samt øllum ektabarna rétti, eptir Hjónab. Ord. §. 8. (um hvisleg tilfelli í hjónab.), séu þau und- irkomin á medan saklaust foreldri vissi ecki ann- ad, enn ad þad væri allra ektamála laust vid adra, t. d.: í þeim nedst á bls. 76 og 100 og í NL. 3

Í

c) Merkilegt tilefni þessa Köngsbréfs gaf þvermódska Prests, ad vilja ecki leida konu í kirkju, sem fæddi manni sínum barn 5 mánudum eptir brúd- kaup þeirra, þo Prófastur og Biskup honum þad skipudu, og Prófasts ͵ rettur sídan dæmdi hann þar til skyldan og í 8 rdla sekt til fátækra Presta- eckna, fyrir óhlydni vid sín Yfirvold, hverjar bætur hans þetta Köngsbréf hæckadi til 12 rdla.

—18—15. No. 2, 5 og 6, og 16 Art. No. 8. nefndu dæmum; ecki heldur fær þau þessum rétti svipt, sem ádur undirkomin og máské fædd, þó foreldrar sídan, þegar annad vitnast hér um, haldi fram lengri sambúd, og verdi þar med hórsek; en hafi annadhvert foreldra vísvitandi þad seinna bløglega hjónaband inngengid, vyrdist barn af því svo gétid, ega sem óekta í þess tilliti ad álitast, og réttur þess þar eptir fara; þó láta menn fyrra hlut þess 8. §. heimila þeim børnum ektabarna rétt, eins í þess seka foreldris tilliti.

Um børn í blódskømm fædd af samgiptum foreldrum, verdur ecki annad sagt, enn ad þeim beri aldúngis ektabarna réttur eptir foreldrana, hafi þessir ecki vitad af þeim svo saknæmu blódtengdum sín á milli, eins og þeim þá eckert straff hæfir, þegar svo breyta sem á bls. 56, 61 fyrirsegir, þó hjónaband þeirra sem aldúngis ólldandi ónýtist (sjá og bls. 103); en ef foreldrar fyrirfram vissu af svo saknæmum tengdum og því dæmast sek fyrir brotid, ber þau sem óekta, samt ecki sem hórgétin børn ad álita. Séu þau þar á mót gétin í ødrum minni meinbugum, í hverjum von er um Kongúngs leyfi til giptíngu, hæfir þeim allur ektabarna réttur.

## Yfirlit Innihaldsins.

ukr tveimur trúlofast; heimuglegra hjóna-
bands loforda hvert rettar tilfall vegna
legorda; Rettur til hjónabands hverr og
nær; eda rádspjalla bótar; nær og hver-
jum missist og af hverjum rokum; nær
Eckju og nær ecki; nær missist hjúi, og
hversu þad straffist þar ad auki; hvert þeirri
konu, sem rángann barnsfodur eda fleiri
lýsir; hvert lýsing fleiri fedra, frii lýstañ
frá fadernis eidi . . 105 - 112

§. 32. Rettur á konum fyrir legord og rád-
spjalla bætur hvad sen; nær og hverjum beri;
hversu legords-brotlegar konur sektudust
til náúnga; nær bætur þær burtfjellu;
hversu deildust; hver misbrúkan þessa rett-
ar fannst, og hversu hann því med logum
nú er takmarkadur og því hjer; hvert ráde-
spjallabætur bera af giptri persónu leg-
ords sekri; nær skylda er ad ekta barns-
mædur sinar, eda gjalda þeim fyrir ráð-
spjoll; hvert fyrir brygdud heimugleg hjóna-
bands loford; Snápsgjøld hvad sen, nær
og hverjum lúkist í sekt; þeirra sanngirni;
hvert kona þau lúki; radspjallabótar upp-
hæd; Rettur náúnga á legordum qveña,
hverr enn se . . 112 - 119

§. 33 Legord hvert rettvísa orsøk gefa megi til
burtvísunar Qveuna úr vistum; óljóst af
logum, nær hún hjer sektast egi 119 - 121

§. 34. Fleiri afleidingar Legorda. Konur ef
locka qvennfólk til losta eda óleyfdra gipt-
inga, mót vilja giptingamanna; Lýsingar
barnsfedra um hvad Prestum og Ljósmædr-
um leyfist ad grennslast, eda vid ad sýsla; hver-
jum þad eginlega tilkomi; fedran barna;
hverjir barna-fedur ad logum álitist; hvad

Blſ.

margra fedra lýſingar í einu — og annara eptirá — verka; Mædur hvert ſverja þurfi fyrir adra; uppfóſturs ſkylda ðekta barna, hverjum, hverſu og hvad lengi áliggi; hver barnsfødur ad bæta fyrir verkſall og koſt barns-módur medan vanfær er og fyrir barnfóſtur; hvert barnsmódir ſektaſt fyrir lýſingu, ſverji lýſtur fyrir Faderni; hvert lýſing vanryktadra qvenna, krefji lýſtra fedra eid; Eckjur legords-ſekra Preſta, hvert geiſtlegum retti tapi; Konur, ſem barn fæda ſtrax eptir brúdkaup, hvert ſem ekta-konur leidiſt í kirkju af Preſti: Legordsbrot hverja verkun hafi á erfda- og annann-rett barna, einkum vid tvi-giptíngu, blódſkømm, meinabrot. 121-130

## Errata:

Blſ. 23, línu 15, les: Betrunarhús. Blſ. 26, l. 1, l: nema í. Blſ. 32, l. 10, l: 13da Okt. 1787. Blſ. 50, l. 23, laun les: l a u ſ n. Blſ. 51, l. 11, l: blſ. 41—42. Blſ. 64, l. 4, l: 16da Dec. 1646. Blſ. 79, l. 17, l: ſaknæmara. Blſ. 100, l. 12, l: heldur. Blſ. 102, l. 1, l: legu. Blſ. 121, l. 15, l: Póliti.

